Nokkrar

# SMÁSÖGUR.

---

Íslenzkað hefur

Bjarni Gunnarsen.

Kosta innfestar í kápu 32 sk.



AKUREYRI.
Prentaðar á kostnað prentsmiðjunnar þar, af H. Helgasyni.
1853.

## YFIRLIT EFNISINS.

## Bóndinn sælastur.

Keisari nokkur, sem var ungur og lítt reyndur, átti eitt sinn tal við ráðgjafa sinn, sem var roskinn og ráðinn, um hin ólíku kjör mannanna, og mælti: „Þó jeg sje ungur enn, þykist jeg samt hafa orðið þess vís, að kjör manna fari fortakslaust eptir ráðlagi hvers eins. Ef maðurinn fer skynsamlega að ráði sínu, þá er hann gæfusamur, en ógæfusamur, ef hann breytir óhyggilega: því ávöxturinn líkist ætíð trjenu.“ „Það er hverju orði sannara, herra!“ svaraði ráðgjafinn; „en þó ætla jeg að hyggindi manna ein sjeu ekki ætíð einhlýt. Hyggni vor er lík alvönum stýrimanni, sem á hægt með að halda skipi sínu í horfinu, meðan byrinn er hagstæður og sjórinn bárulaus; en þegar hvassviðrin bresta á, kemur kunnáttan honum ekki lengur að neinu haldi. Vind-

arnir hrífa skipið með sjer, og hrekja það opt á sker, og brjóta það þar í spón. Ef þjer herra! viljið hlusta á þjón yðar, þá get jeg sagt yður sögu, sem víst mun færa góðar sönnur á mál mitt.“ Keisarinn tók því vel, og ráðgjafin hóf nú söguna þannig:

Asfendíar hjet maður; hann var næst elzti sonur konungs nokkurs á Grikklandi. Þegar á unga aldri vottaðist hjá honum sjerleg greind og athygli, og fóru þessir kostir í vöxt með aldrinum. Faðir hans, sem hafði minni mætur á honum, enn elzta syni sínum, þrátt fyrir þessa yfirburði, fór því að verða hræddur um, að Asfendíar mundi einhvern tíma ryðja bróður sínum úr hásætinu, og rjeði því með sjálfum sjer, að girða fyrir þann ófögnuð í tíma.

En þar eð hann hafði ekki næga hörku í sjer til að drepa son sinn saklausan, þá gjörði hann hann útlægan. Já! hatur hans keyrði svo úr hófi, að hann rak hann út úr höllinni eins og einhvern vergangsmann, og lagði líf manns við, hvað lítið sem nokkur ljeti af hendi rakna við hann.

Asfendíar var veglyndur mjög; því þó það hefði verið hægðarleikur fyrir hann, að ávinna sjer vildarmenn, þar hann hafði á sjer almennings hylli, vildi hann samt heldur una við það, að vera útskúfaður, enn að standa uppi í hárinu á föður sínum. Hann hugsaði með sjálfum sjer: „Föður mínum rennur, ef til vill, reiðin, þegar fram líða stundir, og þá tekur hann mig aptur í sonar stað. Það er sæmra að þola rangindi enn fremja þau.“ Í þessu skapi hjelt hann leiðar sinnar, og hitti að nokkrum dögum liðnum ungan mann, staklega fríðan sýnum, er hjelt á gígju undir hendinni. Konungssyninum varð skjótt ilgott til hans, er hann varð þess vís, að hann var að því skapi skemmtilegur og kurteys, sem hann var laglegur. Hinn, sem geðjaðist viðlíka vinsemd og útlit konungssonar, bauðst einnig til að verða honum samferða. Hjeldu þeir svo áfram ferðinni báðir tveir, þar til hinn þriðji mætti þeim degi seinna. Það var kaupmannssonur, er virtist vera vel að sjer í iðn föður síns. Kunnu þeir vel við hann, og hann ei síður

við þá, og bað því um að mega verða þeim samferða. Þriðja daginn kom til þeirra hraustur og þrekinn bóndi. Hann ætlaði á markaðinn í Laódicea, sem var næsti bær, og er hann heyrði, að hinir 3 áttu samleið, slóst hann í för með þeim.

Á leiðinni var rætt um hitt og þetta; meðal annars fóru þeir að spjalla um gæfuna. Kaupmaðurinn spurði: „Hver vegur ætli sje greiðastur og beztur til þess að verða lánsmaður?“ Asfendíar mælti: „Jeg ætla það sje hamingjan, sem hjálpar oss til að koma voru fram; því hinn æfðasti sundmaður verður jafnvel að láta berast undan, þegar straumurinn er of stríður. Þess vegna hygg jeg, að maðurinn geti bæði án sjálfskaparvíta ratað í hina mestu eymd, og eins orðið fyrir mesta láni, án þess hann vinni til þess.“ Bóndinn, sem ekki skyldi gjörla það, sem konungssonurinn sagði, tók þá til orða: „Jeg held, herra! að sá, sem hefur tvær hendur heilar og vilja á að vinna, muni aldrei þurfa að deyja úr hungri. Vinnan og iðnin getur ætíð bjargað

sjer; sá, sem liggur í leti og ómennsku, er ætíð fátækastur.“ Söngmaðurinn fór að brosa, og sagði: „Ef maður ætlar sjer að komast í álnir og vegsemd með handafla sinum, góðurinn minn! þá kemst maður aldrei langt á leið. Mjer virðist vissasti gæfuvegurinn vera fallegur skapnaður. Fríðleikurinn sigrar auðinn og vitið, og ekkert í heiminum má sín eins mikið og hann.“ „Ekki er jeg því samdóma,“ mælti kaupmaður. „Fríðleikurinn er hverful rós, sem blómgast ekki nema einu sinni, og heppnast þó ei hvervetna. Jeg ætla að hyggnin sje hið áreiðanlegasta gæfu meðal, og það, sem allstaðar er einhlýtt; hún veit æfinlega að koma ár sinni vel fyrir borð og snúa öllu sjer í hag. Hún ein er hin sanna auðlegðar og sæmdar uppspretta; hún ein er fær um að halda í það, sem hún hefur aflað sjer, og hún ein hefur það fram yfir allt annað, að hún eldist aldrei, og skulum vjer nú reyna, hver af oss hefur rjettast fyrir sjer. Þegar vjer komum til bæjarins, skal hver halda hinum veizlu að kvöldi fyrir það, sem hann hefur

unnið sjer inn um daginn. Sá, sem veitir mest og bezt, þegar að honum kemur, hann skal hafa sannast að mæla.“ Fjellust nú hinir á þessa uppástungu. Um sólarlag náðu þeir til gestgjafahússins í staðnum Laódicea, og vörpuðu þar hlutkesti um, hver skyldi byrja, og varð bóndinn fyrstur fyrir því. Um apturelding fór hann niður að höfninni, og vann þar baki brotnu. Hann bar eins mikið í hverri ferð og þrír aðrir, því hann var þrekinn og mesta karlmenni, og þareð hann var harður á kaupinu, var hann búinn að eignast 4 pjastra, þegar hann taldi saman vinnulaunin að kvöldi. Sýndi hann nú fjelögum sínum þetta með glöðu yfirbragði, og lagði drögur fyrir máltíðina. „Það verður æði mögur veizla þetta, faðir sæll!“ sagði hinn fríði söngmaður. „Einn pjastur handa hverjum manni er ekki stórt; þú hefðir átt að spreita þig betur, ef þú hugsar til að vinna þetta veðmál.“ „Talið þjer ekki svona, herra minn góður!“ svaraði bóndinn. „Jeg hef borið meir enn tíu aðrir.“ „Nú! Það er þá atvinnuveginum að kenna,“ mælti

kaupmaðurinn; „hann kastar ekki miklu af sjer.“ „Á morgun fáum vjer að vita, hversu söngmaðurinn aflar sjer mikils.“

Deginum eptir bjó söngmaðurinn sig sem bezt hann gat, og hjelt af stað með hljóðfæri sitt til næsta stórbýlis, er hann hitti á leiðinni. Þar bjó ráðgjafi nokkur, og var kona hans allra mesta söngeyra. Hann gekk inn í forgarðinn, og tók til að syngja, og ljek undir á hljóðfærið. Rödd hans var mjúk og hreimgóð, og hljóðfæraleikurinn að því skapi viðfeldinn. Það var kallað á hann að innstu garðsdyrunum, og nú varð hann að láta heyra til sín þar. Hinni örlátu konu ráðgjafans geðjaðist svo vel að söngnum og kurteysi hans, að hún sæmdi hann ríkmannlegum gjöfum. Þannig fór hann hús úr húsi, þar til kvöld var komið. Kom hann þá aptur með 100 zekkínur[1] í vasanum, og gaf fjelögum sínum dýrðlega máltíð. „Þú verður að hafa á spëðunum á morgun, herra góður!“ sagði bóndi við kaupmanninn, „ef þú hugsar til að fara sæmri för

[1]) Tyrkneskir gullpeningar; hjer um 2 spesíur hver.

enn þessi. Honum hefur áskotnazt meira á einum degi, enn jeg get unnið fyrir allt árið um í kring.“

Næsta morgun fór kaupmaðurinn snemma niður að höfninni, og er hann kom þangað, var útlent skip að kasta akkerum. Dögunum fyrir var hann nákvæmlega búinn að kynna sjer verzlun bæjarins og komast að því, að olían var einkum í dýru verði, þareð því nær allan olíuvið hafði kalið vetrinum fyrir. Hann forvitnaðist um, hvað skipið hefði meðferðis, og er hann varð þess vís, að farmurinn var mestmegnis olía, fór hann á fund við skiparann og mælti: „Jeg er í fjelagi við ríka kaupmanninn Íbrahim; hann sendir þjer kveðju sína, og biður þig að selja sjer alla olíuna, sem þú hefur í skipinu. Við gjöldum þjer tveimur drökmum[1] meira fyrir ankerið, enn í fyrra. Hjerna eru peningar til að festa kaupin; skrifaðu nöfn okkar, Íbrahim og Akmet“. Þá hann var búinn að semja um kaupin, flýtti hann sjer til hins ríka Íbrahims.

[1]) Grísk mynt. Eitt drakma eru $30^3/_5$ sk.

„Herra!“ sagði hann: „Ókunnugur maður býður þjer ríkuglegan ávinning. Mjer var það kunnugt, að forðabúr þín voru endurrjóða af olíu; jeg vonaði að geta gjört þjer greiða, og hef því í þínu nafni keypt alla olíuna, sem kom núna samstundis, með góðu verði.“ Íbrahim var harðánægður með kaupin; síðan fóru þeir báðir saman út á skipið, og hittu þar fjölda kaupmanna, sem voru komnir í sömu erindum, en allt um seinan. Íbrahim greiddi nú skiparanum verðið, og gaf hinum unga kaupmanni, sem hafði útvegað honum svo ábatasöm kaup, 500 zekkínur.

Þá Akmet kom aptur til samferðamanna sinna, mælti konungssonur: „Jeg er mjög vonardaufur um það, að geta orðið nokkrum yðar jafnsnjall! því hvorki get jeg reitt mig á afl mitt nje skapnað. Gæfa mín er komin undir slíkum höppum, sem mjer er ekki unnt að útvega mjer með kostum yðar. En svo að jeg geti ekki kennt sjálfum mjer um, að jeg beri mig ekki eptir gæfukostum þeim, er mjer kynnu að bjóðast, þá ætla jeg að fara

út á morgun til að reyna, hvað mjer vill vel til. Næsta morgun gekk hann út í bæinn, og barst honum fyrst til eyrna, að keisarinn væri látinn. „Vor góði keisari er dáinn,“ hrópuðu menn; „hann á engan erfingja; hvar eigum vjer að finna svo vitran konung aptur?“ Þannig kveinuðu allir; og allir, sem höfðu þekkt hinn látna, rifu í sundur klæði sín, til að votta með því söknuð sinn.

Asfendíar hafði ekkert tilefni til að vera hryggur yfir missi þessum, þar hann var ókunnugur, og gekk því áhyggjulaust um, og komst ekkert við, af að horfa á, hvernig jarðarförin var búin undir. Borgarmenn fengu nú illan grun á honum, sökum forvitni hans og af því hann kom þeim ókunnuglega fyrir sjónir; menn hjeldu hann vera njósnarmann úr einhverju nálægu ríki, tóku hann höndum og lögðu í fjötur, og hann, sem hafði gengið út til að reyna hamingju sína, var látinn í myrkvastofu og mátti svelta þar tvo sólarhringa. „Hvað ætli forsjónin hafi fyrirhugað mjer?“ sagði hann við sjálfan sig. „Skyldi

hún ætla að reyna þolinmæði mína og traust mitt, eða á jeg að kveljast og dragast upp í fangelsi þessu? Jeg er búinn til að þola allt, sem vera skal. Allir eiga þá einu sinni að deyja, og það er einungis fanturinn sem hræðist það.“ Í því hann var að hugsa þetta með sjer, heyrði hann eitthvert skrölt við dyrnar á fangelsinu. Það var lokið upp, og varðmennirnir komu inn, og skipuðu honum að mæta fyrir ríkisráðinu.

Ráðgjafarnir áttu fund með sjer, til að velja nýjan konung; en gátu ekki komið sjer saman. Sá, sem var hyggnastur þeirra, rjeði til að flýta valinu, svo að óeirðir risu ekki í borginni út af ósamkomulagi þeirra. „Það eru óvinveittir njósnarmenn í staðnum,“ sagði hann; „og er þegar búið að handsama einn þeirra, en fleiri kunna að hafa komizt undan. Ef konungurinn í Antíókíu spyr sundurlyndi vort, þá er útsjeð um oss alla.“ Hinir skelfdust við fregn þessa, og ljetu sækja bandingjann til þess að spyrja hann úr spjörunum.

Asfendíar leyndi hvorki nafni sínu nje hverra manna hann var. Hann sagði hreinskilnislega frá því, er fram við hann hafði komið hingað til, og talaði svo skynsamlega og snildarlega, að allir komust við, er nærstaddir voru. Ráðgjafarnir höfðu heyrt getið um útlegð hans, og sumir þeirra, er höfðu verið við hirð föður hans, mundu hvernig hann var í hátt, og þar eð þeir vildu heldur hafa yfir sjer útlendan enn innlendan konung, sem væri jafningi þeirra, þá völdu þeir Asfendíar í einu hljóði. „Guðirnir hafa sent oss þenna útlending,“ sögðu þeir, „til þess að skera úr sundurlyndi voru. Hann einn er verður þess, að vera konungur vor; hann er af konunga blóði, og hefur alla þá kosti til að bera, sem konung geta prýtt. Vitsmunir hans og hugprýði í bágindunum reka oss úr skugga um það, að hann muni verða góður konungur, sem láti sjer vera annt um heill þjóðar sinnar.“

Síðan fögnuðu þeir honum, sem keisara sínum, færðu hann í keisara skrúðann, og leiddu

hann á hvítum fíl um borgina, og sór borgarlýðurinn honum hollustu sína.

Þetta var nú þriðji dagurinn, er fjelagar hans höfðu ekki sjeð neitt til hans. Voru þeir orðnir hræddir um, að honum hefði hlekkst eitthvað á, og höfðu á hverjum degi leitað að honum um borgina, þar eð þeim var öllum vel við hann. Þriðja daginn, er þeir gengu út í sömu erindum, heyrðu þeir, að búið var að krýna hinn nýja keisara, og ruddust með mannþrönginni þangað, sem hann fór um. Asfendíar varð þá var við fjelaga sína í þyrpingunni, og benti þeim að koma til sín, og mælti: „Í kvöld skal jeg halda yður máltíð heima hjá mjer, ef þjer viljið vera gestir mínir.“ Ljet hann nú slá upp dýrðlegri veizlu, og sæmdi þá ríkmannlegum gjöfum, og sagði: „Hamingjan virðist að hafa viljað umbuna mjer traust mitt. Hún steypti mjer að ósekju í fangelsi, og lyptir mjer aptur eins skyndilega upp í hásætið. Farið í friði hjeðan, og minnist fjelaga yðar, er vann veðmálið, þá er hann minnst varði.“ „Herra keisari! þjer hafið val-

ið atvinnuveg þann, sem er arðsamastur“ mælti bóndinn, þá hann þakkaði honum stórgjafirnar. „Láttu þjer nægja,“ svaraði keisarinn: „þú ert sælastur allra vor.“

Þannig mælti hinn aldraði ráðgjafi; og hinn ungi keisari hafði vit á að unna honum sannmælis.

---

## Upp koma svik um síðir.

---

Um næstliðin aldamót dæmdi glæpamáladómurinn í Seine fylkinu á Frakklandi Pjetur nokkurn Kónjarð í fjórtán ára þrælkun, fyrir húsbrot og þjófnað. Maður þessi var afbragðs vel gáfaður, og að því skapi var hann ósvífinn. En hversu vandlega sem hans var gætt, sá hann sjer þó, að fimm árum liðnum, undanfæri til að strjúka úr dýflissunni í Túlonarborg, er hann hafði verið settur í. Nóttina eptir komst hann á spánska skútu, sem einmitt lá þar farbúin, og með henni til Katalóníu, skömmu seinna. Það vildi þá svo til,

að honum varð reikað til bæjar eins, allskammt frá sjónum, og komst hann þar í kunningsskap við María nokkra Rósu, er hafði verið í vist hjá frakkneskum landflóttamanni, greifanum af Pontis Sancte-Helenu, sem var nýlátinn. Greifi þessi átti kyn sitt að rekja til gamallrar og göfugrar ættar, og voru nú mörg ár liðin, síðan hann hafði farið alfarinn burt úr Frakklandi til að gjörast liðsmaður Spánverja. Við það hafði hann komizt til Suðurameríku, og orðið mjög frægur á litlum tíma. En sökum heilsuleysis hafði hann snúið aptur til Spánar, og ætlaði einmitt að beiðast þjónustu við aðra herdeild, þegar dauðinn kom að óvörum yfir hann, langt frá ættingjum og ættjörðu hans. Hinar litlu reitur, sem hann hafði bjargað af öllum auð sínum, ánafnaði hann áminnstri María, eptir sinn dag, fyrir þá alúðlegu aðhjúkrun, er hún veitti honum, á meðan hann lá banaleguna.

María var þegar búin að selja þetta erfðafje sitt; en andvirði þess var þó enganveginn svo mikið, að það hrykki i helztu lífsþarfir

hennar. Þó átti hún enn eptir dýrindis kistil, er í voru, meðal annars, gömul skjöl, sem greifinn sálugi hafði, optar enn einu sinni, látið á sjer heyra, að væri hið fjemætasta, er hann ætti til í eigu sinni.

Svona stóð nú á fyrir veslings stúlkunni, þegar Kónjarð kynntist við hana. Þau neyddust bæði til að segja hvert öðru kröggur sínar, og rjeðu það þá af, að selja einhverjum Gyðingi kistilinn. Þó skoðaði Kónjarð vandlega í hann áður, og fann í honum áreiðanleg ætternisskjöl og framabrjef greifans, og datt honum undir'eins í hug, að skjöl þessi mundu sjálfsagt geta orðið sjer að hinum mestu notum í öðru eins landi og Spáni, þar sem aðalsnafnbótinni hefur ætíð fylgt ósigrandi töframagn. Deginum eptir hjeldu þau því áleiðis til Estremadúru, og kölluðu sig „**greifa** og **greifafrú** af Pontis Sancte-Helenu."

Þetta fyrsta tilræði heppnaðist honum prýðilega. Hann varð sveitarhöfðingi, og er hann vann mörg frægðarverk í ýmsum orust-

um, leið ekki á löngu, þangað til hann var sæmdur heiðursmerkjum fyrir hreysti sína.

Þegar frakkneski herinn hjelt inn í Spán, var Kónjarð búinn að segja sig úr liði Spánverja fyrir nokkrum mánuðum, og fór þá á fund við frakkneska hersforingjann Soult, sýndi honum skjölin um þjónustu greifans af Sancte-Helenu í Ameríku og á Spáni, og mæltist til að ganga í lið með Frökkum. Hersforinginn blekktist bæði af einurð mannsins og skjölunum, og tók honum með mestu virtum, og gjörði hann að sveitarforingja; því hann taldi það víst, eins og vonlegt var, að sá maður mundi nú geta orðið sjer að góðu liði, sem þekkti bæði land og lið óvinanna til margra ára. Kónjarð reyndist líka hersforingjanum eins vel og hann hafði gjört sjer von um, og fórst framúrskarandi laglega og lipurlega að taka þeim heiðri og sóma, sem menn auðsýndu honum og konu hans svo nefndri, sem greifa-hjónum af Sancte-Helenu.

Loksins reið árið 1814 í garð, og á því gjörðust hinir miklu atburðir, sem báru kolin

að hinni fyrstu stjórnarbyltingu. Kónjarð sætti nú færinu, til að snúa aptur til Frakklands með Maríu, þar hann gjörði sjer von um, að hinar mörgu breytingar, sem hann sá þar fyrir, mundu veita sjer æskilegt færi á að komast til dýrðar og tignar með vitsmunum sínum. Oss verður nú bráðum ljóst, að von hans og lyst ljet sjer heldur ekki til skammar verða í því.

Óðar enn hann kom til Parísarborgar, leitaðist hann sem fyrst við að ná fundi Loðvíks konungs hins átjánda, og kallaði sig greifa af Sancte-Helenu. Honum veittist sá sómi; og talaði hann nú mjög svo skorinort og átakanlega um ætt sína og forfeður, lýsti fjármissir sínum og bágindum, bauðst að leggja líf og fjör í sölurnar fyrir búrbonnsku ættina, og bað að endingu um fjestyrk.

Konungur hlýddi mildilega á hann, og kvað það gleddi sig, að sjá hinn seinasta niðja af ætt greifanna af Pontis Sancte-Helenu, veitti honum allt, sem hann bað um, og hjet honum hylli sinni framvegis. Loðvík hinn átj-

ándi fyrirvarð sig ekki seinna meir, að segja frá því, hvernig Kónjarð hefði leikið á sig, og játaði um leið, að hin fjöruga lýsing hans hefði fengið mjög svo á sig, og að hann hefði verið hvers manns hugljúfi við hirðina.

Hamingja Kónjarðs óx, að kalla, með hverjum straum. Napóleon snjeri aptur frá eyjunni Elbu, og Loðvík konungur varð að stökkva aptur úr landi, og flýja til Gent. og var Kónjarð einn af þeim fáu tryggnaðarmönnum, sem fylgdu honum eptir.

Ógæfan er vön að gjöra menn auðtrúa. Kónjarði tókst skjótt að verða mesti vildarmaður konungs; og þá hamingjan var búin að leika sem verst á Loðvík, veitti hann bæði Kónjarði og konu hans, er hafði orðið eptir í Parísarborg, alla þá liðveizlu og fullnað, sem honum var auðið, og hjet að gjöra enn betur við þau, þegar hann kæmist aptur í ríki sitt á Frakklandi.

Þeir hundrað dagar voru nú liðnir, sem Napóleon keisari sat að völdum, og hann var vikinn burt úr Frakklandi að fullu og öllu.

Loðvík konungur snjeri nú aptur, ásamt ættingjum sínum og áhangendum, og var Kónjarð sí og æ í flokki þeirra. Konungurinn var ekki fyr seztur að í höll sinni, enn hann var umkringdur af hirðmönnum og alls konar lýð, sem knjekraup honum; þeir, sem maklegastir voru, eða þeir, sem höfðu lagt eitthvað töluvert í sölurnar, gáfu sig seinastir fram, eins og auðvitað er, og ætíð er vant að vera. Kónjarð ljet og ekki bíða sín lengi. Hann gaf sig fyrstur manna fram, og minnti á það, sem honum hafði verið heitið.

Honum gekk og allt að óskum í þetta skipti. Konungur sjálfur bauð hermálefnastjórnarherranum að gjöra hann að undirforingja í 72. herfylkingunni, sem hafði setu í Parísarborg. Kónjarð kunni nú prýðilega við sig, bjó um sig í skrautlegu húsi, keypti sjer hesta og vagna, og var svo, ásamt Maríu Rósu, greifafrúnni af Sancte-Helenu, boðinn og velkominn í hin beztu og tignarlegustu samkvæmi. Því áræðnari sem hann var, því þokkasælli varð hann. Hann varð meðlimur heiðursfylk-

ingarinnar og Loðvíksriddari; já, hvað meira var, kunnugir menn fullyrtu, að hann hefði þá og þegar átt að verða efsti aðstoðarmaður hjá hertoganum af Angouleme!

Hver veit, hvað hamingjan hefði hossað þessum bíræfna manni hátt, ef atburður einn, sem var kominn undir eintómri tilviljun, hefði ekki stöðvað hann á fluginu allt í einu, og tekið skýluna af níðingsverkum hans! Því eptir að hann var kominn til Parísarborgar aptur, var hann búinn að gjöra sínar gullskreyttu hallir að ræningjabæli, svo að hann gæti því betur sökkt sjer niður í hið stjórnlausa óhóf og eyðslusemi, er hann var hneigður fyrir.

Einn góðan veðurdag var hann árdegis í fjölmennu og dýrðlegu hershöfðingjaráði, sem var við herskoðun á Vendómevellinum; en allt í einu þekkti galeiðaþræll hann, Daríus að nafni, sem að undan förnu, hafði setið á sömu þóptunni og hann. Daríus þessi var búinn að fá frelsi sitt aptur, og var nýskroppinn úr fangelsinu í Túlonarborg, þareð þau

20 hegningar ár voru liðin, sem hann hafði verið dæmdur til að gista þar. Í fyrstu ætlaði hann ekki að trúa sjálfum sjer. Hann virti hann nákvæmlega fyrir sjer, á meðan á herskoðuninni stóð, þangað til hann loks var genginn úr skugga um, að þetta væri Kónjarð, er hann varð var við viprur þær í andlitinu á honum, sem hann var ekki búinn að leggja af enn. Upp frá því hafði hann sívakandi auga á honum, veitti honum eptirför, þá hann fór heim, og gekk inn rjett á eptir honum, og gjörði óðar boð fyrir hann. Var hann þá leiddur inn í veglegt herbergi; og er þeir voru orðnir einir saman, og stóðu hver frammi fyrir öðrum, tók galeiðaþrællinn svo til orða:

„Þekkir þú mig núna? Jeg er Daríus, ólánsbróðir þinn gamli; jeg ætla mjer ekki að steypa þjer í neina ógæfu; því jeg hef ekki brjóst í mjer til að koma upp um þig. Þú ert auðugur, en jeg öreigi; ef þú hjálpar mjer, mátt þú vera öruggur um það, að jeg skal þegja, og muna þjer það!“

Þegar svona er farið að manni, ætti það eina svarið að liggja beinast við, sem vottaði, að maður kynni að meta svo einlæga sögusögn, og hjeti ólánsbróður sínum liðveizlu í bágindunum. En forsjónin lætur ætíð hinn bíræfnasta glæpamann einhvern tíma fá makleg málagjöld; hún benti nú og Kónjarði á, í hvern strenginn hann átti að taka! Hann var svo ósvífinn, að lýsa allt haugalýgi, og fór að aumingjanum, sem bað hann hjálpar, með óheyrilegri og afskaplegri ómennsku, og ljet snara honum orðalaust út úr húsinu.

Úr þessu klórinu var Kónjarði glötunin vís. Daríus fór óðar í hefndarbræði til stjórnarráðsins, og bað um að lofa sjer að tala við hertogann af Decazes, sem þá var innanríkisráðherra á Frakklandi, þar hann ætti áríðandi erindi við hann. Honum var þegar hleypt inn, og sagði hann þá ráðherranum í stuttu máli allan sannleikann, og leiddi gild rök til.

Decazes varð öldungis forviða; því hann sá það fyrir, hvílíkt hneixli úr þessu mundi verða, og vildi eiga sem minnstan hlut að

máli; hann skipaði því Daríusi að fara til foringjans fyrir hlutaðeigandi herfylkingu, og segja honum greinilega alla söguna.

Daríus var vel ánægður með hina fyrstu hefndartilraun sína, og fór tafarlaust til herforingjans og skýrði honum orðrjett frá því, sem hann var ný búinn að segja ráðherranum, og hverju hann hafði svarað. Hershöfðinginn, sem var hníginn á efri aldur, og mesta valmenni, staklega vandur að virðingu sinni og rjettsýnn, stökk óðar upp, enn búið var að segja honum þessar kynlegu frjettir, og mælti bistur. „Með hverju ætli þú munir geta sannað sögusögn þína?“

Daríus mælti: „það mun allt bezt sannast, herra! ef þjer látið undir eins sækja Kónjarð, og leiðið okkur svo saman!“

Hershöfðinginn fjellst vel á þetta, og ljet sendimann sinn þegar tafarlaust boða hann til sín.

Kónjarð kom að vörmu spori í hirðveizluklæðum sinum, og búinn öllum heiðursmerkjum. En er hershöfðinginn leit hann koma inn,

sagði hann í hálfgildings háði og bræði: „Herra greifi góður af Pontis Sancte-Helenu, yður skal ekki lengur takast, að hafa bæði mig og ríkisráðið að leiksoppi! Jeg veit nú, að þjer eruð Kónjarð sá, sem strauk burt af galeiðunum!“

þessi ósvífni maður ljet sjer ekki bregða vitundar ögn við þessi orð, og mælti:

„Jeg þakka yður, hershöfðingi góður, kærlega fyrir, hvað heiðarlega þjer titlið mig! Jeg skal ekki vera lengi að sækja skjöl mín, sem skulu taka af öll tvímæli, og bezt munu geta sannað yður, hver og hvað jeg er!“

„Bíðið þjer við!“ mælti hershöfðinginn. „Jeg sleppi yður ekki svona einsömlum! Jeg ætla að láta einn sveitarhöfðingja og tvo lögregluþjóna fara með yður. En áður ætla jeg að reyna yður dálítið!“

Að svo mæltu ljet hann Daríus koma inn. þegar Kónjarð sá hann, gat hann ekki að sjer gjört, að láta sjer ei bregða svo, að hinn skarpskygni hershöfðingi yrði ekki var við það. Daríus ítrekaði aptur sögusögn sína orð-

rjett; en Kónjarð varð uppi, með hrakyrðum og skömmum. Til þess að gjöra enda á þessari dælu, kallaði hersforinginn á einn sveitarhöfðingja sinn, og skipaði honum, að taka með sjer tvo lögregluþjóna, og fara með undirforingjanum heim til hans, og skilja ekkert við hann, og kvað sveitarhöfðinginn skyldi ábyrgjast ef út af brigði.

Síðan hjeldu þeir af stað. Sveitarhöfðinginn ljet nú lögregluþjónana ganga spölkorn á eptir, í virðingarskyni við stöðu Kónjarðs.

Á leiðinni var Kónjarð hinn upprifnasti við sveitarhöfðingjann; hann kvartaði sáran yfir þessari ósæmilegu meðferð á sjer, og kvaðst ekki þurfa annað enn leggja fram skjöl sín, til að reka af sjer ámælið, og tórtýna ámælismönnum sínum! — Sveitarhöfðinginn sagði honum fyrir víst, að hann væri sannfærður um það.

Þegar þeir loks voru komnir heim að húsi Kónjarðs, urðu lögregluþjónarnir eptir fyrir utan, en Kónjarð fór inn með sveitarhöfðingjanum, og skipaði þjóni sínum að færa

sjer eina vínflösku. Þá María sá menn þessa ganga inn í húsið, varð hún skelkuð. En Kónjarð sagði henni óðar, hvað sjer hefði mætt; og hinn alúðlegi sveitarhöfðingi sannfærði hana um, að greifanum mundi veita hægt að rjettlæta sig, og reka af sjer ámælið.

„Já, jeg skal ábyrgjast það!“ mælti Kónjarð. Síðan hellti hann víni á staup handa sveitarhöfðingjanum, sem fannst það mjög ljúffengt; og að því búnu bað hann um, að lofa sjer sem snöggvast inn í næsta herbergi, til að sækja skjöl sín; en kona sín yrði honum til samlætis á meðan.

Sveitarhöfðinginn hafði ekkert á móti því. Benti þá Kónjarð bróður sínum, sem var búinn eins og aðrir höfðingja-þjónar, að koma með sjer, og fóru þeir svo báðir saman inn í næsta herbergi. Undir eins og þeir voru komnir inn, gjörði Kónjarð bróður sínum skiljanlegt, hvað um væri að vera, hafði í skyndi fataskipti við hann, setti hatt hans á höfuð sjer, og flýtti sjer niður leynistiga, og út, og fram hjá lögregluþjónunum, sem gátu ekki

þekkt hann í þessum búningi, og fór svo það sem fætur gátu togað þangað, er maður nokkur, Lexcellent að nafni, átti heima, sem fyr meir hafði verið í sömu fordæmingunni og hann á einni galeiðunni, og tók nú með báðum höndum á móti honum í neyðinni.

Á meðan ræddi sveitarhöfðinginn við greifafrúna, og smá-bergði á hinu ljúffenga víni. Hann hafði áður þjónað á Spáni, og barst því þetta ágæta land bráðum í tal. Þau fóru að spjalla um hinar skáldlegu menjar þess og inndælu fegurð; og þessar endurminningar æstu nú ímyndun hans meir og meir, svo að hann gleymdi öllu öðru. Þegar þau voru búin að ræðast við góðan tíma, fór hann að hugsa um bandingja sinn aptur. Hann hreifði því við frúna, að maður hennar væri æði lengi burtu; og er honum sýndist hún verða óttaslegin, spratt hann upp, lauk upp dyrunum á næsta herbergi, litaðist þar um í krók og í kring, og leitaði síðan í hverju horni um allt húsið, en fann enga lifandi sál, nema þjóna, sem ljetu eins og þeir sæju hann varla. Loks hitti

hann einn, sem hann gat komið orðum við, og spurði hann hvar húsbóndi hans væri? „Það er ein klukkustund síðan hann fór eitthvað út!“ svaraði hinn.

Við þetta varð sveitarhöfðinginn svo skelfdur, að hann stóð eins og dæmdur. Hann gaf sjer ekki tíma til að kveðja frúna, og hjelt sem hraðast heim aptur til hershöfðingjans, og sagði honum einlæglega, hvernig allt hefði farið. Hershöfðinginn varð afar reiður, og ljet setja bæði sveitarhöfðingjann og lögregluþjónana í átta daga varðhald.

Kónjarð hafði ekki kunnað að nota sjer hina miklu hamingju sína, til að betra lifnað sinn, og drepa huldu á það, sem liðið var; en hann kunni ekki framar nú, enn áður, lag á því, að færa sjer í nyt frelsið, sem hann var búinn að ná aptur, og steypti sjálfum sjer einmitt í rjettvísinnar hendur. Tveim dögum eptir að hann strauk, fór hann með Lexcellent og tveim ítölskum mönnum til Túlúsuborgar, og kom með þeim aptur til Parísarborgar, að hálfum mánuði liðnum. Þrem

dögum seinna leigði hann sjer vagn, og ók til peningakaupmanns nokkurs, bað hann um ávísun upp á peninga í Túlúsuborg, og taldi fram 2000 franka í gulli; en á meðan laumaði hann á sig kambpung peningakaupmannsins, er ekki fannst til, hvað hinn var ósvífinn ásýndar, og spurði hann hvers erindi hann væri að reka? Kónjarð kvaðst vera sinna erinda, og mundi hafa sig á burt þegar, ef hann fengi enga ávísun. Með það sópaði hann peningunum saman, og rauk út úr ritstofunni. En í sama bili saknaði hinn kambpungsins, og kallaði nú af öllum mætti: „Hjálpið mjer! Hjálpið mjer! Takið þjófinn höndum!“

Við þetta óp numu nokkrir staðar, er gengu fram hjá, og stöðvuðu vagninn. Báðir hinir ítölsku höfðu á sjer smábissur, og komust undan. Kónjarð gat líka skotizt burt, svo ekkert bar á, en Lexcellent varð náð. Lögreglumennirnir fóru undir eins heim til hans. Hafði þá Kónjarð flúið þangað, en stökk óðar út um gluggann, sem vissi að Ferdínandsstrætinu. Heima hjá Lexcellent fundust bæði

morðkutar, smábissur, grímur og lausaskegg, í stuttu máli, fullkominn ræningjafatnaður.

Lögreglumönnunum var þegar skipað, að verja sjer öllum til að grafast eptir, hvar Kónjarð og fjelagar hans væru niður komnir, og ná þeim. Síðan var fjölda lögregluþjóna dreift um Ferdínandsstrætið, og undir miðnætti fjell bæði Kónjarð og hinir ítölsku í hendur þeirra. Dómstólarnir tóku nú við.

Úr því svona var komið, gat enginn kennt í brjóst um Kónjarð framar. Hann var nú ekki lengur galeiðaþrællinn, sem með hugrekki sínu og vitsmunum hafði leitazt við að komast í nýja stöðu í mannlegu fjelagi; hann var ekki annað enn svívirðilegur glæpamaður, sem hafði sífelt haft mök við kompána sína. Fyrst mætti hann fyrir dómstólnum í Seinefylkinu, sem rannsakaði, hvert Kónjarð og greifinn væru sömu mennirnir. Málaflutningsmaðurinn Agier sókti málið, en Dupin yngra var falið á hendur að verja það.

Kónjarð þver-neitaði öllu fastlega, og kvaðst geta leitt næg rök að því, að hann hefði ver-

ið annarstaðar staddur, þegar glæpir þeir, margir hverjir, voru framdir, sem bornir voru upp á hann. Sakar verjandi hans leitaðist á allar lundir við að sanna, að hann og greifinn af Pontis Sancte-Helenu væru einn og hinn sami maður.

Þegar búið var að halda margar rannsóknir í málinu, varð hinn ákærði loks sannur að sök, þar eð óræk skýrteini og rök voru framkomin, og var því ofurseldur ríkissóknaranum, svo hann gæti farið að rannsaka, hvað sekur Kónjarð væri í glæpum þeim, sem hann var ákærður fyrir að hafa hafst að, eptir að hann strauk af galeiðunum.

Það, sem Kónjarði nú var gefið að sök, var: þjófnaður og húsbrot á náttarþeli, svik, fals og banatilræði á mönnum. Þessi guðlausi maður hafði notað tign sína og vináttu stórhöfðingja, til að drýgja hina mestu stórglæpi, svo að hann gæti reist rönd við þeim feiknarlegu útgjöldum, er hans dæmalausa eyðslusemi og sóunarfýsn knúðu hann til. Eins af glæpum þessum verður að geta hjer, þar hann

lýsir, hvaða mann hann hafði að geyma, og hvernig hann fór að hagnýta sjer hið siðferðislega álit, sem hann var búinn að öðlast.

Þá hann kom til Parísarborgar, heimsókti hann stór-embættismann nokkurn í ríkisráðinu, Prevost að nafni. Kona hans var af Pontis ættinni, og Kónjarð þóttist sjálfsagt vera skyldur henni, þó langt væri til að telja. Hjón þessi tóku honum því, og konu hans, svo nefndri, vinsamlega, og komst hann þannig í nánan kunningsskap við heiðvirðan mann, Sergent að nafni, sem hafði forræði á hendi í her-stjórnarráðinu. Einu sinni fór hann til hans, með öðrum manni, og ljet sem það væri vinur sinn, er ætlaði að biðja hann einhverrar bónar. Sergent tók þeim báðum mjög alúðlega, en var þá einmitt önnum kafinn. Kónjarð gjörði sig nú heimakominn á meðan, og fór að ljúka upp ýmsum draghólfum í hirzlu hans einni; sá hann þar þá ýmsa smágripi úr steinum og málmi, og mikinn borðbúnað af silfri, sýndi þetta manninum, sem með honum var, og sagði um leið: „Horfið

á! það munu ekki vera margir ráðherrar, sem eru byrgari af menjagripum, enn hann!" Og með þessum gullhömrum skjallaði hann Sergent upp, til að lofa þeim að skoða hin herbergin. Síðan lituðust þeir um í öllum hinum herbergjunum, og þrýstu, í snatri, móti af öllum lyklunum að þeim, í vax. Að svo búnu tóku þeir sig saman um, að stela skyldi þann dag, sem Sergent hefði málstefnu í herstjórnarráðinu. Til þess að smegja sjer úr öllu, var Kónjarð á málstefnunni, þangað til hún var úti. Á meðan á henni stóð, spurði Sergent hann nokkrum sinnum vingjarnlega: hvort hann gæti aðstoðað hann í nokkru? Kónjarð vissi ekki, hvað vel hann átti að þakka honum, og þar eð hann kom tíðum í her-stjórnarráðið, grunaði engan neitt um návistir hans þar. En á meðan hann þannig hafði gætur á Sergent, brauzt óaldarflokkur hans inn í hús hins síðar nefnda, og stal frá honum, ekki að eins öllum borðbúnaði, er hann átti af silfri, heldur og gimsteinum, mörgum dýrgripum, og öllum peningum hans. Þá Ser-

gent kom heim um kvöldið, varð hann öldungis forviða af svo bíræfnum þjófnaði. Næsta dag, þá þjófnaður þessi var kominn í hámæli, fór Kónjarð að hitta Sergent, til að samhryggjast honum einlæglega, og bjóða honum liðveizlu sína, til að leita upp ránsmennina. Hinn ráðvandi Sergent þakkaði honum hjartanlega fyrir slíka góðvild. Kónjarð fór því með honum til æðsta lögreglumannsins, og svo til málaflutningsmanns konungs, og lýsti því yfir, að nokkur orð hefðu af hendingu flogið fyrir eyru sín, sem kynnu að hjálpa til að komast eptir, hverjir væru valdir að verkinu. En, eins og nærri má geta, leiddi hann lögreglumennina afvega með skýrslu sinni, og komst hið sanna fyrst upp seinna meir, þegar margt af því stolna fannst bæði heima hjá honum og Lexcellent. Annar þjófnaður, sem hann framdi með fjelögum sínum, var að því skapi slingur, sem hann var bíræfinn.

Eptir að búið var að þinga fimm daga í málinu, var sá dómur lagður á, að Kónjarð ætti að standa í gapastokki á mannamótum, og

vera í þrældómi æfilangt, en bróðir hans Alexander, Lexcellent og báðir hinir ítölsku að eins í fimm ár. Rósa kona hans, sem átti að heita, var dæmd sýkn saka.

Kónjarð bar hegninguna með furðanlegri stillingu. Laxbræður hans gömlu í Túlonarborg tóku á móti honum með fagnaðarópi. Rósa fór sömuleiðis þangað, til að vera nær honum, og lina nauðir hans, ef unnt væri, og varð þar síðan til dauðadags.

---

## Maðurinn frá Hringaríki og kerlingarnar þrjár.

Það voru einu sinni hjón; þau ætluðu að sá til korns, en áttu hvorki útsæði nje peninga, til að kaupa það fyrir. Þau áttu eina kú í eigu sinni, og átti maðurinn að fara með hana til bæjarins, og selja fyrir peninga, svo þau gætu keypt sjer útsæði. En þegar til kom, þorði konan ekki að sleppa manni sínum með kúna; því hún var hrædd um, að hann mundi

drekka upp peningana í bænum. „Heyrðu, heillin mín!“ sagði hún, „jeg held það sje bezt, að jeg fari sjálf, þá get jeg komið út gömlu hænunni minni um leið.“ „Það skal vera eins og þú vilt,“ sagði maðurinn; „en farðu nú skynsamlega að ráði þínu, og mundu nú eptir, að þú átt að fá 10 rdl. fyrir kúna!“ „Já, það skal jeg gjöra,“ sagði konan, og lagði svo af stað með kúna og hænuna.

Skammt frá bænum mætti hún slátrunarmanni nokkrum. Hann yrti á hana, og spurði: „Ætlar þú að selja kúna þá arna, heillin góð!“ „Það trú' jeg“ mælti konan. — „Hvað á hún að kosta?“ — „Mjer þykir líklegt, að jeg fái 16 skildinga fyrir kúna, en hænuna skalt þú hafa fyrir 10 dali.“ — „Já, það eru góð kaup,“ mælti slátrunarmaðurinn; „jeg þarf ekki á hænunni þinni að halda, og þú kemur henni orðalaust út, þegar þú kemur til bæjarins; en jeg skal gjalda þjer 16 skildinga fyrir kúna.“ Þau gjörðu nú út um kaupin, og konan fjekk markið sitt; en er hún kom til bæjarins, vildi enginn lifandi maður gefa henni 10 dali fyrir

gamla, útlifaða hænu. Konan fór þá til slátrunarmannsins, og mælti: „Heyrðu, fuglinn minn! Skammi það, ef jeg kem út hænunni. Þú verður að kaupa hana líka, blessaður! fyrst þú sazt með kúna, svo að jeg geti komið heim með peningana.“ „Jajæja! jeg vona við komum okkur eins vel saman um það,“ mælti slátrarinn. Síðan bauð hann henni inn til sín, og gaf henni mat, og svo mikið af brennivíni, sem hún vildi í sig láta. „Það var mikill blessaður slátrari, þetta,“ hugsaði hún með sjálfri sjer, og drakk þangað til, að hún var orðin út úr, og vissi ekki sitt rjúkandi ráð.

En hvað tók slátrarinn nú til bragðs? — Á meðan konan svaf úr sjer vímuna, dýfði hann henni ofan í tjörukagga, velti henni síðan í fiðurbyng, og lagði hana svo niður úti, þar sem mjúkt var undir henni. Þegar hún vaknaði, og sá, að hún var orðin alfiðruð frá hvirfli til ilja, datt yfir hana, og hún hugsaði með sjer: „Hvernig ætli standi á mjer? Er jeg það sjálf eða einhver önnur? — Nei, það er ómögulegt að það sje jeg; það hlýtur að

vera einhver furðu stór dreki. — En hvernig á jeg að fara að vita, hvert jeg er það sjálf eða ekki? — „Jú, nú veit jeg, hvernig jeg skal komast eptir því, hvert jeg er það sjálf. Ef kálfarnir sleikja mig, og hundarnir gelta ekki að mjer, þegar jeg kem heim, þá er jeg það sjálf.“

Óðara, enn hundarnir sáu þessa ófreskju koma inn í húsagarðinn, fóru þeir að gelta í ósköpum, svo það fór ekki að fara um konuna. „Mjer er næst að halda, að það sje ekki jeg sjálf,“ sagði hún; og þá hún kom inn í fjósið, vildu kálfarnir ekki sleikja hana, þegar þeir fundu tjörulyktina. — „Nei, nú sje jeg, að það getur ekki verið jeg; það hlýtur að vera einhver furðulegur, óþekktur fugl; mjer er eins gott að fljúga hjeðan,“ sagði hún, og skreið síðan upp á búrsmæniriinn, og fór að baða út handleggjunum, eins og það væru vængir, og ætlaði að taka sig upp. Þá maðurinn sá þetta, tók hann bissu sína, fór út í garðinn, og miðaði á hana. „Æ nei!“ kallaði konan í sama bili, „skjóttu ekki, heillin mín!

það er þó líklega jeg sjálf.“ — „Ef það ert þú,“ mælti maðurinn, „þá stattu ekki þarna blaðskellandi, en komdu niður og gjörðu grein fyrir peningunum, og stattu skil á þeim!“ Konan skreiddist þá ofan aptur, en hún gat ekki fært honum peningana, af því hún hafði enga fengið. Að sönnu fór hún að leita að markinu, sem slátrarinn hafði goldið henni fyrir kúna, en hún hafði tínt því í drykkjuskapnum; og þá maðurinn heyrði alla sólarsöguna, varð hann svo reiður, að hann strengdi þess heit, að ganga frá öllu saman, og koma aldrei heim aptur, ef hann hitti ekki þrjár aðrar kerlingar, sem væru eins vitlausar og kerlingin hans.

Hann lagði síðan af stað, og er hann var kominn nokkuð áleiðis, leit hann kerlingu eina, sem hljóp út og inn um nýsmíðað timburhús, með tóma sáld í höndunum. Í hvert skipti, sem hún hljóp inn, breiddi hún svuntuna yfir sáldina, eins og hún hefði eitthvað í henni. „Hvað ert þú að bjástra, kelli mín?“ spurði maðurinn. „Það er ekki annað, enn að jeg

ætlaði að bera dálítið af sólskini inn í nýja húsið mitt að tarna; en jeg veit ekki, hvernig því er varið; þegar jeg er úti, er sólin í sáldinni; en þegar jeg kem inn, þá er jeg búin að missa hana; á meðan jeg var í gamla kofanum mínum, hafði jeg næga sólarbirtu, þó jeg bæri hana aldrei inn. Það vildi jeg, að jeg þekkti einhvern, sem gæti útvegað mjer sólskin í húzið, þá skyldi jeg glöð gefa honum 100 dali.“ — „Það kynni að verða ráð til þess,“ sagði maðurinn. „Ef þú hefur öxi, þá skal jeg útvega þjer sólina.“ Hann fjekk nú öxina, og hjó svo glugga á húsið, þar smiðurinn hafði gleymt því; sólarbirtuna lagði þá óðara inn, og með það fjekk hann þessa 100 dali. „Nú er komin e i n,“ sagði maðurinn, og lagði svo aptur af stað.

Að stundarkorni liðnu kom hann að húsi einu, og heyrði út ógnarlegt óp og vein. Hann gekk því inn, og leit kerlingu eina, sem var að dangla í kollinn á manni sínum með barefli. Hann var búinn að steypa yfir sig skyrtu, en komst ekki í hana, þar eð klaufina vant-

aði. „Hvað gengur hjer á?“ kallaði aðkomumaður í gættinni, „ætlar þú að drepa manninn þinn, kerling?“ — „Pæ óekkí!“ mælti hún, „jeg ætla ekki annað, enn koma honum í nýju skyrtuna sína.“ Maðurinn hljóðaði, og bar sig hörmulega, og sagði: „Guð huggi, og náði þann, sem á að fara í nýja skyrtu. Ef einhver gæti kennt kerlingunni minni að koma öðruvísi klauf á skyrtuna, þá skyldi jeg glaður gefa honum 100 dali.“ „Það kynnu má ske að verða ráð til þess, fáið mjer að eins skæri,“ sagði aðkomumaður. Konan færði honum skærin; klippti hann þá klauf á skyrtuna, og fjekk svo þessa hundrað dali. „Nú eru komnar tvær,“ sagði hann, og hjelt svo leiðar sinnar.

Þá hann var búinn að ganga lengi, kom hann loks að bæ einum, og ætlaði að hvíla sig þar stundarkorn. Þegar hann kom inn í baðstofuna, var þar kerling fyrir. Hún spyr: „Hvaðan ert þú, heillar maður?“ „Jeg er frá Hringaríki, þaðan er jeg,“ svaraði maðurinn. — „Nei er það svo, hvað segið þjer!

Eruð þjer frá Himnaríki? Þá þekkið þjer líklega manninn minn sæla, hann Pjetur annan?" — Konan var nokkuð heyrnardauf; hún var gipt í þriðja sinn manni, er Pjetur hjet, eins og báðir fyrri mennirnir; en fyrsti maðurinn hafði verið vondur við hana, og því hugsaði hún, að einungis annar maður sinn, sem var henni góður, hefði orðið sáluhólpinn. — „Já það er víst, jeg þekki hann dável!" sagði maðurinn frá Hringaríki. — „Hvernig líður honum þá þar efra?" spurði konan enn framar. „Æ, hann á í basli," svaraði maðurinn. „Hann röltir þar, og ráfar á milli bæjanna, fær lítið að jeta, og á ekki garmana utan á sig, — að jeg ekki nefni peninga." — „Ó, guð náði hann þá," gall kerlingin við. „Hann þarf þó ekki að vera svo volæðislegur, maðurinn sá; því svo miklar reitur voru eptir hann. Jeg á fullan klefa af fatnaði eptir hann, og peningakistil geymi jeg líka eptir hann sælan. Ef þjer viljið flytja það með yður fyrir mig, skulið þjer fá hest og kerru, til þess að aka því á; og hestinum getur hann

haldið hjá sjer, þar efra, og kerrunni eins; hann getur tillt sjer á hana, og ekið milli bæjanna, því hann er ekki sá aumingi, að hann þurfi að vera fótgangandi.“ Maðurinn frá Hringaríki fjekk fullt æki af fatnaði, og fullan kistil af ljómandi fögrum silfurpeningum, og svo mikið af mat og drukk, sem hann vildi; og er hann var búinn að taka við því, fór hann á bak, og reið leiðar sinnar.

„Nú eru komnar þ r j á r,“ sagði hann við sjálfan sig; en þriðji maður konunnar var úti á akri að plægja; og er hann sá ókunnugan mann koma með hest og kerru frá bænum, flýtti hann sjer heim, og spurði kerlingu sína, hver sá væri, sem hefði farið úr hlaðinu með moldótta klárinn. „Nú sá, það var maðurinn frá Himnaríki,“ mælti kerling; „hann sagði mjer frá, að hann Pjetur minn sæli annar ætti svo bágt; hann rólar þar, og ráfar á milli bæjanna, og hefur hvorki klæði nje fæði, og svo sendi jeg honum fataklifina, sem hjekk hjer eptir hann.“ Þó var henni ekki um, að geta um peninga-kistilinn. Maðurinn

skildi óðara, hvernig í öllu lá, lagði þegar á hest sinn, og reið af stað í loptinu. Það leið heldur ekki á löngu, þangað til fór að draga saman með honum og kerrumanninum; en sem þessi sá það, beygði hann út af leiðinni, með hestinn og kerruna, inn í skóginn, sleit síðan hnefafylli sína úr taglinu á hestinum, og hljóp upp á eitt leitið, og festi taglhárið upp í eik eina, lagðist þar svo niður, og glápti og mændi upp í skýin. Þegar hinn var rjett kominn að honum, kallaði hann hástöfum: „Nei! nei! nú hef jeg aldrei sjeð annað eins á minni lífsfæddri æfi!“ — Pjetur þriðji staldraði stundarkorn við, og horfði á hann, og var sízt að skilja, hvað að honum gengi. Loksins spurði hann: „Hvað ertú að góna og blína á þarna, sem þú liggur!“ — „Nei, aldrei hef jeg sjeð annað eins,“ sagði hinn, „hjer var einn nýlega, sem fór beint upp í himininn, með moldóttan hest; nokkuð af taglinu festist í eikinni hjerna, og þarna uppi í skýjunum geturðu sjeð moldótta klárinn.“ Pjetur þriðji leit á manninn og

upp í skýin á víxl, og sagði: „Jeg get ekkert sjeð, nema fáein hrosshár í eikinni.“ — „Nei, þú getur ekki sjeð það þaðan, sem þú stendur,“ mælti hinn; „en komdu, og leggðu þig niður einmitt hjerna, þar sem jeg ligg, og líttu beint upp í loptið, og svo verður þú að blína stundarkorn, og líta ekki augunum af skýjunum.“ Á meðan Pjetur lá graf-kyr, og starði upp í himininn, hljóp maðurinn frá Hringaríki að hestinum, stökk á bak, og þeysti af stað með hestinn og kerruna, það sem klárarnir gátu farið. Þegar Pjetur heyrði skröltið á veginum, spratt hann upp, en var í sömu andránni svo utan við sig, að hann hafði ekki sinnu á að elta þann, sem fór með hestinn hans, fyr enn honum var orðið ómögulegt að ná honum.

Pjetur kom heldur enn ekki niðurlútur heim til kerlingar; en er hún spurði, hvað hann hefði gjört af hinum jórnum, sagði hann: „Jeg fjekk manninum hann, svo hann gæti fært honum Pjetri öðrum hann; því mjer þótti það ekki hæfa honum, að skjökta á kerru

bæja á milli í himnaríki; nú getur hann selt kerruna, og keypt sjer vagn, og ekið með tveimur hestum fyrir.“ — „Hafðu ástar þakkir fyrir það, Pjetur minn!“ mælti kerling; „mjer hefði aldrei dottið í hug, að þú mundir vera svona hugull maður!“

Þá maðurinn frá Hringaríki kom heim til sín, með 200 dalina, fataklifina og peningakistilinn, sá hann, að búið var að plægja akur sinn, og sá í hann. Varð honum þá fyrst fyrir, að spyrja kerlingu sína, hvaðan hún hefði fengið útsæði. „Nú ójá!“ svaraði hún, „jeg hef alla jafna heyrt, að sá, sem einhverju sái, eitthvað fái, og tók jeg svo saltið, sem við áttum eptir síðan í vetur, og sáði því; og ef það kæmi nú að eins deigur dropi úr loptinu, þá held jeg víst, að það spretti, og gefi vel út á pottinn.“ — „Vitlaus ertú, og vitlaus verður þú, á meðan þú tórir,“ svaraði maðurinn; „en það verður að eiga það; því hinar kerlingarnar reiða ekki vitið í stærri þverpokum, enn þú.“

---

## Skeggrakaradrengurinn.

Maður á hvorki að freista Guðs nje manna. Einu sinni kom ókunnugur maður, seint um kvöld, að veitingahúsi í þorpi nokkru á þýzkalandi. Hann hafði skegg mikið, og var svo undarlegur ásyndar, að mönnum gat staðið geigur af honum. Áður enn hann heimtaði vott eða þurt, sagði hann við húsbóndann: „Er hjer enginn skeggrakari, sem getur rakað mig?“ Húsbóndinn kvað já við, og sækir skeggrakarann. Aðkomumaður segir við hann: „þjer verðið að raka mig, en jeg er æði hörundssár. Ef þjer flumbrið mig ekki í framan, skuluð þjer fá fjórar krónur. En ef þjer skerið mig, legg jeg yður til bana þegar í stað. þjer eruð ekki sá fyrsti.“ þá skeggrakarinn heyrði það (og aðkomumaður setti á sig heldur ófrýnilegan svip, og hið oddhvassa, kalda lagvopn lá þegar til taks á borðinu), hafði hann sig á burt sem skjótast, og sendi svein sinn. Aðkomumaður sagði við hann slíkt hið sama. þá sveinninn heyrði það, hljóp hann líka í burt,

og sendi drenginn. Drengurinn ljet peningana ginna sig, og hugsaði með sjálfum sjer: „jeg ætla að hætta á það. Ef mjer tekst að skera hann ekki, þá get jeg keypt mjer fyrir þessar 4 krónur spánýjan kjól og vesti til fermingarinnar. Takist mjer það ekki, þá veit jeg hvað jeg gjöri.“ Og síðan rakar hann manninn. Aðkomumaður situr grafkyr, og veit ekki í hvaða dauðans hættu hann er; en drengfíflið lætur sjer ekki bregða, og lætur hnífinn vaða um kjálkana og granirnar á honum, eins og það kostaði ekki nema 6 sk. og dálítið af njarðarvetti eða loðpappír, ef hann fleimraði hann, en ekki um 4 krónur eða líf manns væri að tefla; og þannig nær hann af honum skegginu án bens eða blóðs; en þegar hann var búinn, sagði hann þó við sjálfan sig: „Guði' sje lof!“

Þá aðkomumaður var staðinn upp, og búinn að þurka sjer í framan, og skoða sig í speglinum, fjekk hann drengnum allar krónurnar, fjórar, og mælti: „En segðú mjer, drengur minn, hver þjer gaf áræði til að raka mig, þar sem bæði húsbóndi þinn og sveinninn hlupu

á burt? Því ef þú hefðir skorið mig, þá hefði jeg þegar í stað lagt þig til bana.“ Drengurinn þakkaði brosandi fyrir skildingana, og sagði: „Náðugi herra! Þjer hefðuð ekki getað lagt mig. Því undir eins og þjer hefðuð kiprað yður agnar ögn í framan, og jeg hefði sjeð, að jeg var búinn að skera yður, þá hefði jeg brugðið fyr við enn þjer, og óðara skorið yður á háls, og hlaupið svo eitthvað út í buskann.“ Þá aðkomumaður heyrði það, og fór að hugsa um háskann, sem hafði vofað yfir sjer, varð hann náfölur af ótta og skelfingu, bætti við drenginn einni krónu til, og hefur upp frá því aldrei sagt við neinn skeggrakara: Ef þú skerð mig, þá legg jeg þig til bana þegar í stað.“

---

## Hattur Napóleons.

Í borg einni, í greifadæminu Sússex á Englandi, voru tveir menn, og var sinn við hverja fjölina felldur. Hjet annar þeirra Játvarð-

ur Kinnisdal, en hinn, Hinrik Búttler. Játvarður safnaði sagnagripum, en Hinrik hafði mestu mætur á bókum. Þó nú svona ólíkt væri á komið með þeim, haggaðist samt ekki um samlyndi þeirra í mörg ár. Þegar annarhver átti eitthvað erfitt, stóð pyngja hvors ætíð opin fyrir hinum, og hvor hjálpaði öðrum í vandasömum fyrirtækjum. Játvarður dáðist jafnan að bókum Búttlers, og Búttler gjörði það aptur í góðu skyni, að hæla gripasafni Játvarðs, sem mest hann mátti.

Í stuttu máli, þeim var sífelt vel til vina, þangað til báðir tóku það í sig, að giptast. Hinn alvörugefni Búttler, fann nefnilega ekkert það í skruddum sínum, með hverju hann fengi staðizt hina tælandi fegurð stúlku nokkurrar, sem var seytjánda dóttir sveitarprests þar í nágrenninu; hann gekk því að eiga hana. Allt að einu fór fyrir Játvarði. Hann varð einu sinni var við það, að hann vantaði enn þá dýrmætan og fágætan grip í safn sitt, sumsje — ástríka konu; hann giptist því jómfrú Arabellu.

Hvorugur var þó út af ánægður með hjónabandið; og stundum gjörðust þær greinir með þeim og konunum, að glundroði komst í hið dýrmæta safn beggja. Madama Búttler og frú Kinnisdal voru báðar mjög gefnar fyrir skart og dansleika, og höfðu sömu mætur á hinum ljómandi einkennisfötum setuliðsriddaranna. Þessi svipaði smekkur kom skjótt fullum fjandskap á milli beggja skjaldmeyjanna, og sleit algjörlega vináttu mannanna, eins og nærri má geta.

Lítil borg er of þrönglent konungsríki til þess, að þar geti rúmast tvær konur, sem vilja báðar bera höfuðið hærst, og vera einar um sína hitu.

Aðrir eins menn og þeir Játvarður og Búttler verða aldrei metnir eins og vert er. Þeir gefa sig alla við því eina, sem þeir hafa yndi af, og verða því naumast hræddir um konur sínar; og hvað sem gjörist, fella þeir sig við það.

Einu sinni, þá Búttler datt sú heimska í hug, að lesa konu sinni dálítin kafla um „sið-

gæði," kom allt í einu þvílík óstilling yfir hana, að hún þreif nokkrar fásjeðar bækur, sem var raðað vandlega niður á borðið, og senti þeim upp í háa lopt, og traðkaði þær svo í sundur, í þúsund snepla, áður enn hann gat brugðið við, til að bjarga kjörgripum sínum. Hann sló saman höndunum af harmi, og fleygði sjer kveinandi fyrir fætur þessarar elskulegu konu; en augum hins grátmænandi gafst ekkert að líta, nema tæjurnar af hinum ljómandi bókum. — þessi ráðning var hins vegar nógu skiljanleg og lærdómsrík til þess, að Búttler ljeti nokkurn tíma skreppa fram úr sjer auka tekið orð, er snerti siðferði hennar.

Frú Kinnisdal hafði einmitt sama lagið, með engu minni sigri, þegar eins var ástatt. þá maður hennar kom flatt upp á hana, einhvern dag, er hún átti tal við sveitarhöfðingjann Janders, var hann ekki óðara búinn að nefna „óleyfilegt mót," enn reiði hinnar æfu frúar belgdi sig á vængjum vindanna svo ógurlega, að veslings maðurinn forðaði sjer undan þessu óttalega óveðri inn í dýrgripa-

búr sitt. En í bræði sinni bar frú Kinnisdal ekki lotningu fyrir þessum helgidómi, hvað þá; og þegar hún var búinn að ryðja úr sjer allri orðgnóttinni og orðin hljóðlaus, þreif hún í skelfilegu æði dýrðlegt ker úr postulíni, og ljet það fara veg allrar veraldar, í því hún grýtti því í gólfið.

Játvarður rak upp angistar óp við þetta grimmdarverk. Því þetta var hið fyrsta ker, með þeirri gerð, sem hafði verið búið til á Saxlandi. Barón Böttcher, sem fann upp á því, hafði gefið það Karli konungi öðrum árið 1676.

„Guð minn góður!“ hrópaði Játvarður; „hvílíkt óbætanlegt tjón! Þetta var hið eina kerið, sem til var, af sömu tegund!“

„Því barmið þjer yður þá?“ mælti hin blíða kona í hæðilegum róm. „Þjer áttuð nýlega ekki nema einn hlut, en nú eigið þjer hundrað!“

Játvarður sór nú, og sárt við lagði, með sjálfum sjer, að hann skyldi aldrei framar ónáða konu sína, þegar hún hefði einhver

leyndarmál, og að hún mætti, að skömminni til, heldur hafa mót með öllum sveitarhöfðingjum í veröldinni, enn að eiga það undir hættu, að verða fyrir slíku tjóni!

Forsjónin kenndi loks í brjóst um þessa hart leiknu krossbera; það er að skilja, þeir urðu ekkjumenn báðir, að kalla, um sama leyti. Hvor um sig átti þó, í raunabætir, dýrmætar menjar þessa ógæfusama hjónabands; því Búttler átti son, en Játvarður dóttir.

Báðir þessir aldavinir, sem konur þeirra höfðu spillt á milli, bundu þó ekki, að sinni, með sjer vináttu þá, er fyr meir gjörði þeim lífið svo inndælt. Tíminn var búinn að kæla hjörtu þeirra, og þeir voru búnir að fá of mikla ást á sjálfum sjer, til þess að geta fundið til, hversu mikið í vináttuna er varið. Þar að auki hafði hagur þeirra breytzt fyrir nokkrum árum. Játvarður hafði að undan förnu þá yfirburði fram yfir Búttler, að hann var tiginn maður, og hafði tekið við arfi, sem gjörði hann stórríkan; en Búttler varð að hafa

lítið um sig, þar eyðslusemi konu hans var búin að ríða honum að fullu.

En bókavinurinn ætlaði sjer ekki hátt. Allt yndi hans og ágæti var falið í hinu óviðjafnanlega bókasafni, er hann átti, og þetta kom honum til að gleyma því, þó tómlegt væri í kringum hann að öðru leyti; hann þakkaði guði fyrir það, að hann hefði látið sig hafa ráð til þess, að ala son sinn sómasamlega upp. Játmundur Búttler var mesti gáfupiltur, og prýðilega úr garði gjörður af föður sínum, að öllum kostum. Hann var nú orðinn 19 vetra og mesta gull af ungmennum, og numdi lögfræði, svo að faðir hans var farinn að spá því, að hann mundi einhvern tíma verða æðsti lávarður á Englandi.

En áður enn honum varð að þessari háfleygu spá sinni, varð Játvarður að marki ástfanginn, og það í — jómfrú Henríettu Kinnisdal, því hann var að því skapi viðkvæmur, sem vitsmunir hans voru miklir.

Það sópaði líka að Henríettu. Hún var öllum meyjum fegri, og bezti kvennkostur í

öllu greifadæminu Sússex. Hafði hún og allt hið geðslega af móður sinni, en ekkert af hinu, og hefði fyr látið allt yfir sig dynja, enn skemma kjörgripi föður síns í nokkru. Einkennisföt setuliðsriddaranna fengu heldur ekkert á hána; já, hún hefði tekið lítilfjörlegustu garma langt fram yfir þau, ef Játmundur Búttler hefði verið í þeim!

Af þessu má því ráða, að þau unnu hvort öðru hugástum.

Einn morgun gekk Játmundur snemma inn til föður síns, þar sem hann sat sokkinn niður í skruddur sínar, og mælti: „Hafið þjer ekki orðið var við neitt, faðir minn?“

„Víst er svo!“ mælti Búttler. „Rjett núna fann ieg stafavillu í þessum Abraham Elzevír, sem öllum hefur sjezt yfir hingað til!“

„Jeg hef heldur ekki efast um eptirtekt yðar, hvað bækurnar snertir,“ mælti Játmundur, „En það er miklu torveldara að lesa úr áhrifum sálar minnar, enn smáa letrinu á þessum velktu blöðum í bókinni, sem þjer hafið fyrir yður; því þjer hafið víst ekki orðið var við

það enn þá, faðir minn góður, að jeg er orðinn — ástfanginn?“

„Hvaða ... hvaða bull ertú að fara með? ... Ástfanginn? ... Og þú ert að tala um þessa vitleysu við mig?“

„Hvert ætti jeg annars kostar að flýja? Er það ekki næst fyrir föður minn, að biðja mjer til handa stúlku þeirrar, sem jeg hef ást á?“

„Þú ætlar þjer að kvongast? En farðú að mínum ráðum, sonur minn góður, og gjörðú ekki þá vitleysu!“

Bókavinurinn hafði mikið fyrir því, að sigra hinar íllu afleiðingar þessara óviturlegu orða. En viðbjóðurinn, sem hann hafði á hjónabandinu, eins og vonlegt var, gat þó ekki haldið í við hina brennandi ást Játmundar. Og hversu gekk það ekki fram af honum, þegar sonur hans kvað upp með það að lokunum, að sú, sem hann hefði þenna brennandi ástarhug á, væri jómfrú Henríetta Kinnisdal!

„Dóttir herra Játvarðs!“ hrópaði Bútt-

ler. „En gætirðu þá ekkert að því, veslingur, hvaða fjarski er á milli ykkar!“

„Ástfangin hjörtu þekkja engan fjarska!“ svaraði sonurinn blátt á fram, sem stóð til að yrði doctor juris.

„En tign? Auðlegð? ... Metur þú þá þessa hamingjukosti einkis?“

„Já, einkis: því maður þarf þeirra ekki við, til að vera sæll!“

„það færi betur, að allir feður væru á þínu máli með það!“

þeir voru nú æði lengi að þrefa um þetta, þangað til faðirinn loks ljet undan, eins og við var að búast, og naumast var ein stund liðin, þá Búttler sást arka prúðbúinn og strokinn til fornvinar síns í Kinnisdal.

Hugrakkur og ókvíðinn fór hann heiman að frá sjer, til að bera upp bæn sína hreint og beint; en dapur og hnugginn snjeri hann heim aptar.

„Núnú?“ kallaði sonur hans til hans álengdar.

„Nú,“ anzaði bókavinurinn,“ það fór, eins

og mig varði. Herra Játvarður álítur þig ekki samboðin dottur sinni!“

„Sögðuð þjer honum, faðir minn, að hún vildi mig?“

„Hann kvað það eintómt barnæði; ungu stúlkurnar elskuðu ætíð hið ómögulega, en tækju þó engu að síður þeim manni, sem þeim væri gefinn.“

Játmundur varð nær því örvinglaður.

„Það er, ef til vill, ekki í öll skjól fokið enn!“ mælti hinn góðlyndi Búttler. „Jeg ætla að fara til Játvarðs aptur á morgun, og vita hvert honum hefur ekki snúizt hugur!“

Í liðlanga viku fór Búttler tvisvar sinnum til Játvarðs á hverjum eilífasta degi, svo að Játvarður fór loksins að brúka sárustu skapraunaryrði við hann, til þess að losast við bænastagl þessa jarganslega vinar. Seinast þegar Buttler kom heim úr Kinnisdal, lá samt, venju framar, vel á honum, þó við sjálft læi, að hinn hefði rekið kunningja sinn gamla út.

Eptir nokkra þögn, tók hann svo til orða:

„Játmundur minn! aldrei hefur Játvarður verið harðari í horn að taka, enn nú. Þessi mannfýla hefur ofmetnazt við ellina, og vill ekki að dóttir sín eigi annað, enn einhvern baróninn! En honum skal aldrei verða hettan úr því klæðinu! ... Af því jeg hef sveimað opt um vígið, er jeg búinn að komast að, hvar veikast er fyrir, og vígveggurinn verður brotinn! ... Ef jeg hefði ekki verið svo hrapparlega gefinn fyrir bækur, sem hafa kostað mig ærna peninga, hefðir þú nú verið nógu efnaður til þess, að koma Játvarði ofan af því, að skáka í hróksvaldi með tign sinni. En guð veri lofaður fyrir það, að faðir hennar Henríettu á líka við sinn staur að rembast, sem að líkindum gjörir hann ekki að öreiga, en getur þó má ske orðið mjer að liði! Mjer ber nú að bæta þjer það mein, sem jeg gjörði þjer, er jeg eyddi arfi þínum. Það er nú ráð mitt: að þú farir aptur á háskólann, og sjert þar þrjá mánuði; á meðan ferðast jeg til Lundúna og þaðan yfir á meginlandið. Að hálfu missiri liðnu snúum við heim aptur, og þá gjöri

jeg hina síðustu atrennu. Jeg vona að jeg geti, með guðs hjálp, unnið björninn.

Feðgarnir föðmuðu hvor annan, og óskuðu að hittast heilir aptur. Tveim dögum síðar kom Búttler til Lundúna, og hafði lítið meðferðis, nema kistu eina mikla, sem hann hafði hinar fágætustu og dýrmætustu bækur sínar í.

Þegar hinn tiltekni tími var liðinn, og Búttler var kominn heim aptur, gjörði hann dálitla veizlu, og gleymdi þá ekki að bjóða Játvarði; en hann kom ekki. Það varð að sitja við það, og bókavini vorum kom það heldur ekki á óvart, að svo mundi fara. Eigi að síður var tekið til veizlu þessarar; það barst og um alla borgina, að Búttler hefði í samsæti þessu sýnt vinum sínum kjörgrip einn, sem hann hefði komið með frá Frakklandi!

„Sjálfsagt einhverja myggglaða skruddu!“ mælti Játvarður reigingslega. „Nei,“ mælti hjeraðsdómari nokkur, með mikillri ákefð, „fásjeðan og merkilegan hlut, sem þjer gætuð vissulega notað; eða með öðrum orðum: litla hattinn. sem

hann Nepóleon hafði á höfðinu, á leiðinni yfir Mundía fjöllin!“

þessi orð fengu mjög svo á Játvarð. það dýrmætasta, sem hann átti til í öllu gripasafni sínu, og honum þótti bera af öllu öðru, já, sem hann áleit eins mikils virði og allt hitt að saman lögðu, var — lítill hattur, sem Napóleon keisari átti að hafa átt.

Játvarður hafði borgað þenna kostgrip í dýrum dómum; og áður hann keypti hann, hafði hann, með skjölum og glöggvum skírteinum, sannfært sig um það, að hattur þessi væri ekki að eins hið sanna höfuðfat þess mikla manns, sem það var eignað, heldur og hið eina, sem til væri eptir hann.

„þetta er falshattur!“ mælti Játvarður. „Margir slíkir hattar fara manna á milli í kaupum og sölum, og margt flónið hefur glæpst á því.“

„það verð jeg þó að láta yður vita,“ mælti hjeraðsdómarinn, „að Búttler hefur þau gögn og skírteini í höndunum, sem vjer hljótum að álíta fullt eins áreiðanleg og yðar. þjón-

ustumaður Napóleons sjálfs seldi honum hattinn.“

Játvarður hafði nú engan frið, og þaut undir eins til Búttlers. Honum var tekið með mikillri kurteysi, en fremur þegjandalega, þar hann var ei spurður að öðru, enn erindinu.

„Jeg ætlaði að eins að sýna þjer ofan á, hvað mikið væri varið í kjörgrip einn ónefndan, sem þú þekkir! . . . Einhver ágirndarpúkinn hefur haft þig að leikfífli, vinur sæll!“ En þegar Játvarður sá hinn skelfilega grúa af skírteinum og skilríkjum, sem hlóðust saman hjá litla hattinum hans Búttlers, varð hann öldungis hissa, og rak í roga stanz.

„Tveir hattar!“ hljóðaði hann upp yfir sig. „Þetta gengur fram af mjer! . . . Hvað mikið á jeg að gjalda þjer fyrir hattinn, góðkunningi gamli? segðú til!“

„Þú ætlar má ske að jeg muni fara að láta þenna dýrgrip úr höndunum á mjer? Nei, það skal aldrei verða!“

„En ef jeg ljeti þig fá helmingi meira fyrir hann, enn þú hefur gefið?“

„Þó þú byðir mjer helminginn af öllu fje þínu, föstu og lausu, væri hann samt ekki falur, og svo á jeg heldur ekki hattinn lengur!“

„Hvernig stendur á því! Þú munt þó aldrei vera búinn að selja öðrum hattinn?“

„Nei, en jeg er búinn að gefa syni mínum hann í heimanmund.“

„Í heimanmund!“ mælti Játvarður, og hugsaði sig stundarkorn um. „Gott og vel, þá gjöri jeg hann að tengdasyni mínum, en þó með því skilyrði, að þetta gersemi skuli vera mín eign!“

Það var fjærri því, að þessir skilmálar sættu nokkrum mótmælum af Játmundi. „Jeg fellst á þá!“ mælti hann.

„Þjer eruð vænsta ungmenni!“ mælti Játvarður frá sjer numinn. „Jeg gef yður hana Henríettu mína, og hún fær 15,000 pund sterling í heimanmund! . . . Við, Búttler minn, skulum endurnýja hina fornu vináttu vora; og báðir ættbogarnir og hattarnir skulu framvegis vera eins og einn ættbogi og einn hattur!“

## Rjettú þeim næsta.

Karl Vilhjálmur hertogi í Brúnsvík, er var uppi eitthvað fyrir 60 árum, ljet sjer vera sjerlega annt um að sækja helgar tíðir, bæði á sunnudögum og hátíðum, og gat ekki þolað, að nokkur vanrækti kyrkjugöngur.

Einu sinni komst hann að því, að bændur í þorpi nokkru voru vanir að venja komur sínar í veitingahús nokkurt, þegar aðrir dánumenn fóru til kyrkju sinnar, og að þeir sátu að drykkjum allan þann tíma, er þeir áttu að verja til guðlegrar yðju í drottins húsi, sjer og öðrum til uppbyggingar af Guðs orða heyrn. Höfðu hvorki áminningar sóknarprestsins nje ávítur yfirvaldsins orkað því, að þessir forhertu drykkjuhrútar ljetu á móti ástríðu sinni.

Einn sunnudag tók hertoginn sig til, og fór í ruddalega yfirhöfn, sem var hneppt upp undir höku, og hjelt svo til tjeðs veitingahúss; það stóðst þá líka á: strokkurinn og mjaltirnar, að öll hersingin kom þangað, þegar verið var

að samhringja. Í broddi þessara seggja gekk hár og digur dóni, og lýsti hið dreirrauða nef og dónalega drjúgmennska því þegar, að hann hlaut að vera formaður í þessum glaðværa hóp. Hann settist óðara þegjandi í öndvegi, og ljet hertogann tilla sjer niður við hliðina á sjer, en leit þó hornauga til þessa nýja fjelaga síns, er engan þeirra rak minni til, að þeir hefðu áður sjeð í veitingahúsinu góða, sem þeir svo opt höfðu heimsótt.

Nú kom veitingamaðurinn inn, og setti geysi stóra krús, fleyti fulla af brennivíni, fyrir framan formanninn í samdrykkjunni. Hann þreif undir eins ílátið með báðum höndum, og tók sjer vænan teig, rjetti síðan að hertoganum, er hjá honum sat, og sagði um leið: „Rjettu þeim næsta!“

Þannig gekk nú brennivínið um til allra gestanna, þangað til það kom til formannsins, sem tók sjer fyrst góða hressingu, og ljet það síðan á ný berast til hinna veslinganna, sem þyrstir voru. Þreif nú hver fegins hendi ílátið í hvert skipti, og er hann hafði sopið ósvikið á,

ljet hann það frá sjer, og sagði um leið: „Rjettú þeim næsta!“

En þegar byrja átti þriðju umferðina, stóð hertoginn upp afar reiður, hneppti frá sjer yfirhöfninni, og ljet sjá hinn alþekkta búning sinn og hefðarmerki, vjek sjer síðan að formanninum, og sagði um leið og hann rjetti að honum svo vænt kjaptshögg sem hann gat: „Rjettú þeim næsta!“

Hinn ljet sjer hægt um að gegna þessari kynlegu skipun; en þá dró hertoginn sverð sitt úr slíðrum, og mælti: „Hvern ykkar, sem ekki snoppungar annan eins vægðarlaust og hann er maður til, skal jeg finna svo í fjöru, að hann gleymi því ekki svo fljótt.

Við þessi orð voru í einu vetfangi allir hnefar á lopti, og nú rigndi löðrungunum niður borðsendanna á milli, fimm, sex sinnum í röð, þangað til hertoginn að lokunum var orðinn ánægður með, hvernig hann hafði refsað þessum drykkjuhrútum, og skildi að svo búnu við þá, og ljet þá svo eiga sig sjálfa.

Höfðu menn það fyrir satt, að engan af þess-

um góðu hálsum hefði fýst að koma í veitingahúsið næsta sunnudag.

---

## Staklegt minni.

Minnið er einhver hinn ágætasti eiginlegleiki, sem skaparinn hefur veitt sínum skinsemigæddu verum; því það gjörir hið umliðna sífellt nærverandi, og getur þannig orðið manninum að hinum mestu notum, bæði fyrir sjálfan hann og fjelag það, sem hann lifir í.

Menn dást jafnan að þeim, sem forsjónin hefur verið rífhent við í þessu tilliti, og álíta þá, sem eitthvert fásjeð afbrigði, er þrautalaust geta haft yfir ræður eða hvað annað, sem þeir hafa hlerað eða lesið. Þannig getur gamla sagan, um að Cýrus Persakonungur, Rómverjinn Scipió Afríkanus og Hadrían keisari, hafi getað nefnt alla hermennina í sínu fjölmenna liði með nafni, og aldrei fatazt. Júlíus Cæsar las öðrum fyrir 5 eða 6 brjef í senn, um ýmislegt efni, og ritaði sjálfur eitt á með-

an. Páfi Clemens hinn sjötti gleymdi því ekki aptur, sem hann hafði heyrt eða lesið einu sinni; en það var furðanlegast, að hann fjekk þetta frábæra minni eptir högg, sem hann fjekk aptan á höfuðið.

Hefðu menn ekki á seinni tímum vitað dæmislíka menn, mundu það óefað verða álitnar ögfar einar, sem hjer er sagt um hina áminnstu menn.

Marcel hinn eldri, sem lifði um seinustu aldamótin í París, útlistaði í einu 10 mjög alvarleg efni, og las það fyrir 10 mönnum í 6 eða 7 ólíkum tungumálum. Hann ljet einu sinni segja sjer nöfnin á öllum hermönnunum í einni hersveit, sem var að æfingum, og nefndi síðan öll nöfnin í röð, og fataðist ekki.

Í Túrin var vísindamaður nokkur að nafni Sachieri, sem gat haft orðrjett yfir ræðu, er hann hafði heyrt, án þess að fipast. Hann gat teflt við 3 menn í einu, og horfði þó ekki á neitt taflið. Hann þurfti ekki annað, enn að sá, sem flutti mennina fyrir hann, segði, hverju mótstöðumaður hans hafði leikið, og

gat hann þá sagt fyrir, hvernig leika átti hans megin. En á meðan var hann vanur að ræða við þá, sem nærstaddir voru, um ýmislegt, og gat þó talið upp alla leiki sína og mótstöðumanns síns í röð.

Þá Voltaire var við hirð Friðriks annars Prússakonungs, kom þangað Englendingur nokkur, sem hafði svo frábært minni, að hann gat haft aptur yfir allt það, sem honum var sagt eða lesið fyrir, þó það væri talsvert langt, án þess að sleppa úr minnsta orði eða atriði. Konungur ljet kalla þenna mann fyrir sig, til að reyna hann, og varð hissa yfir gáfum hans. Skömmu seinna bað Voltaire konunginn um, að veita sjer þann sóma, að hlusta á kvæði, er hann nýlega hefði ort. Konungur hjet því, en ætlaði um leið að henda ögn gaman að honum. Hann ljet því Englendinginn vera á hleri bak við fortjald eitt, og skipaði honum að taka nákvæmlega eptir því, sem Voltaire ætlaði að hafa yfir. Voltaire kom nú, og las upp kvæði sitt svo snjallt sem hann gat, til þess að konunginum skyldi finnast sem mest

um. En konungur ljet fátt yfir, og sagði, þá Voltaire var búinn, og bað hann að kveða upp álit sitt um kvæðið: að hann hefði tekið eptir því, að Voltaire væri um tíma farinn að stela frá öðrum, og segjast svo sjálfur hafa samið; svo djarfan hefði hann ekki ætlað hann, og því væri hann ekki rjett vel ánægður með hann. Voltaira varð felmt við þessa ráðningu, og sór og sárt við lagði, að hann ætti það ekki skilið, og að konungurinn gjörði sjer rangt til. „Nú!" mælti konungur, „jeg skal undir eins færa yður heim sanninn um það, að jeg hef satt að mæla; kvæðið, sem þjer höfðuð yfir fyrir mjer, á Englendingur nokkur, sem hefur ort það." Voltaire varði sig með því meiri ákefð, og vann að því dýra eiða, að hann væri höfundurinn. "Nú jæja, gefið yður þá fram," mælti konungur, og leit um leið þangað, sem Englendingurinn var í leyni bak við fortjaldið, „og hafið það yfir fyrir herra Voltaire, sem hann þykist vera höfundur að!" Englendingurinn kom með mestu alvörugefni, og las upp úr sjer kvæði Voltaires, án þess

að fella neitt úr; þá mælti konungur: „Nú! er það ekki satt, sem jeg sagði?“ — „Ó, þú himin!“ gall þá Valtaire við, „áttú enga eldingu framar, til að sundurmerja þenna níðing, sem eignar sjer kvæði mitt? hjer búa svik undir, sem gjöra mig örvinglaðan.“ Konungur hló dátt að öllu saman, og launaði Englendingnum vel fyrir skemmtunina.

---

## Mjór er mikils vísir.

Laffitte var á sínum tíma æðsti ráðgjafi á Frakklandi, og eigandi að 30 milíónum franka, og þessa miklu hamingju átti hann — einum títuprjóni að þakka.

Þá hann kom til Parísarborgar árið 1788, langaði hann helzt til að koma sjer fyrir hjá einhverjum verzlunarmanni; hann hafði og meðmælingarbrjef til peningakaupmannsins Perregós, sem var stórríkur, ættaður úr Sveissalandi, og bjó höll einni, er hann hafði unnið í talnabúð. Hann fór því þangað, og bar

upp erindi sitt; en Perregó kvað alskipað á skriftofunni hjá sjer, og synjaði honum því um vistina.

Laffitte snjeri nú hryggur og niðurlútur burt þaðan; en er hann gekk um húsagarðinn, sá hann hvar títuprjónn lá, tók hann upp, og stakk honum í ermina sína. Perregó hafði staðið við gluggann, og sjeð þetta. Hann var einn af þeim, sem gat markað manninn af litlu, og hugsaði þá með sjer: að óhætt mundi vera að trúa þeim pilti fyrir meiru, sem hirti einn títuprjón; kallaði því á eptir Laffitte, og sagði, að hann skyldi fá vist hjá sjer deginum eptir. Hann hafði heldur ekki litið skakkt á piltinn; því hinn ungi verzlunarþjón varð innan skamms gjaldkeri, og svo fjelagi hans, síðan þjóðarfulltrúi, og að lokunum æðsti ráðgjafi.

Að líkindum mundi líf hans hafa tekið allt aðra stefnu, ef hann hefði ekki, í hið umgetna skipti, tekið upp títuprjóninn.

---

# Napóleon og förudrengurinn.

Þá Napóleon var orðinn æðsti konsúl, og bjó í höllinni, „Tuilerierne," sem hann var vanur að kalla „stóra búrið" sitt, brá hann sjer stundum eitthvað út á kvöldin með einhverjum vildarmanni sínum. Einu sinni þá hann þannig, sem optar, fór um forsæluveginn á hinum svonefndu „Paradísarvöllum," ásamt hershöfðingjanum Duroc, yrti drenghnokki á hann, og beiddist ölmusu. Drengur þessi var frá Savoyen, og hjelt á apaketti. Það er alkunnugt, að Napóleon hafði mesta viðbjóð á apaköttum, og bandaði því hinum litla förudreng frá sjer með keirinu sínu, og sagði við hann í snæfum róm: „Þjer væri þarfara að vinna eitthvað, heldur enn að snýkja!"

„Jeg vildi líka feginn vinna," anzaði drengurinn; „en á sumrin fær maður ekki að hreinsa neina skorsteina, og þess vegna verð jeg að ganga um með apaköttinn minn, og snýkja."

„Því ferðú ekki heim til þín aptur?"

„Hún móðir mín er svo fátæk; hún getur ekki fætt mig. Jeg á sjö systkin, og jeg er elztur.“

„Og hann faðir þinn?“ sagði Napóleon; „er hann annar eins yðjuleysingi og þú?“

„Hann faðir minn, herra borgari!“ svaraði drengurinn, og festi um leið dökku augun sín á Napóleon, sem leit til hans með alvörugefni — „hann faðir minn er dáinn!“

„Á, er því svona háttað?“ — Hvernig dó hann þá? Var hann hermaður?“

„Nei, hann fylgdi mönnum yfir fjallvegina í sveit minni, en þó var hann hermaður, þegar hann dó. Þegar frírîkisliðið kom til Savoyen, varð faðir minn að fylgja því um kleyfarnar á Cacómefjallinu; en allt í einu varð hann var við, að þeir voru komnir að útvörðum Austurríkismanna. Faðir minn, sem var hundrað skrefum á undan frönsku hermönnunum, kallaði til þeirra: „Bíðið við!“ og rjett í því hittu kúlur óvinanna hann, svo hann hnje niður. Faðir minn var nú dauður, en fríríkisliðið stökkti Austurríkis-

mönnum, og hjelt svo áfram. Svona hefur hún móður mín opt sagt mjer söguna.“

„Og gaf þá,“ sagði Napóleon, sem nú komst við af þessari einföldu frásögn drengsins, — „gaf þá frakkneski foringinn henni móðir þinni ekki neina peninga, til þess að huggnast henni fyrir það, að hún hafði misst mann sinn, og aðstoð ykkar?“

„Ekki svo mikíð sem einn líarð; þvert á móti brutu frönsku mennirnir allt í sundur, þegar þeir komu í bæjinn okkar, og tóku jafnvel geitina, sem hún amma mín hafði gefið henni móður minni.“

„Nú, lýgur þú drengur minn!“ hrópaði Napóleon.

„Nei, herra borgari! jeg segi yður öldungis satt,“ sagði drengurinn titrandi; því hann sá, að svipan fór að bærast í hendi konsúlsins.

„Og jeg segi þjer, að það gjetur ekki átt sjer stað,“ sagði Napóleon. „En jeg skal komast eptir sannleikanum. — Hvað heitirðú?“ spurði hann drenginn.

„Jerome Survet, herra Borgari!“

„Duroc!“ sagði Napóleon við hershöfðingjann, sem var með honum, „skrifið þjer: 600 franka í pensíón handa konunni Survet, ekkju eptir einn alpaliðs-fylgdarmanninn. það á strax að greiða henni pensíónina fyrir hið næstliðna ár. Hvað þig snertir,“ sagði hann við drenginn, „þá skalt þú koma til hallar minnar á morgun, og spyrja að þessum manni, og þegar þú ert kominn, skaltú láta leiða þig til aðstoðarmanns míns; heyrirðú það?“

„En, ætli menn lofi mjer þá inn með apaköttinn minn?“

„Bæði apakettinum og þjer; ykkur mun verða lofað inn tálmunarlaust. Taktú nú við þessu, til kvöldverðar handa þjer og laxmanni þínum! Gleymdú ekki að koma á morgun!“ — Með þessum orðum gaf Napóleon honum sexlíffra pening, og reið svo leiðar sinnar með Duroc.

Daginn eptir kom drengurinn til hallarinnar, og fáum dögum þar eptir var hann settur í lúðurþeytara-skólann í Versailles. Apa-

kötturinn var sendur til gripasafnsins í Malmaison, og Jerome Survet var hjartanlega glaður yfir gæfukjörum síns tryggva laxmanns. Árið 1805 varð Jerome liðsriddari og fjell í bardaganum við Austerlitz. Löngu áður var apaköttur hans andaður, búið at troða út belginn af honum, og láta hann í náttúrugripasafnið, og sjest hann þar enn.

---

## Konungurinn og svíðingurinn.

Þegar Friðrik Vilhjálmur hinn fyrsti, Prússa konungur, gjörði sig að óboðnum gesti hjá einhverjum hershöfðingja eða ráðgjafa sínum, eins og honum var alltítt, vildi það líka stundum til, að hann varð að borga veizluna sjálfur. Einu sinni er hershöfðingi hans einn, sem var alræmdur svíðingur, bað sig undan þegin því, að veita konungi viðtökur, sem kom svona óboðinn, og barði því við, að hann væri búlaus maður, — skoraði konungur á hann, að útvega máltíð í veitingahús-

inu „Portúgalskongi“ kjá Nikolási veitingamanni, og gat svíðingurinn ekki skorazt undan því. Konungi var því boðið, en hann kom með hálfu fleiri förunauta, enn hershöfðingjann varði. Þó var nú ríkuglega á borð borið af vistum og ölföngum, og lýsti konungur því yfir, að hann væri í alla staði ánægður með veitingarnar. Síðan ljet hershöfðinginn kalla veitingamanninn fyrir sig, og spurði, hvað skamturinn kostaði.

„Ekki nema eitt gyllini fyrir hvern mann, auk vínsins!“ anzaði Nikolás.

„Það er gott,“ mælti hershöfðinginn, „hjerna er eitt gyllini fyrir mig, og annað fyrir konunginn; hinir höfðingjarnir, sem jeg hef ekki boðið, verða hver að borga fyrir sig!“

„Það var fjári slungið!“ mælti konungur; „jeg ætlaði jeg hefði leikið á hann góða mann, en hann hefur róið köttinn af gærunni!“

Konungur borgaði því næst allan reikninginn.

## Faðir og sonur.

Faðirinn ljet dálítið meðalaglas niður í borðhólfið, þar eð hann hjelt, að það mundi hvergi vera betur geymt. En er sonurinn kom heim úr skólanum, og ætlaði að draga hólfið út í skyndi, til að ná spjaldinu sínu, datt glasið um, og brotnaði. Þá gaf faðir hans honum utan undir í bræði sinni, og sagði: „Geturðu ekki gáð að, hvað í hólfinu er, áður enn þú dregur það fram?“ Sonurinn svaraði: „Nei, það getur enginn maður.“ En föðurnum varð að orði: „Haltu munni, þegar þú talar við mig. Annars færðu annan til.“

Minnstu þessa: mönnum er aldrei gjarnara að hafa rangindi í frammi, enn þegar menn hafa sjálfir á röngu að standa. Það er rjett gjört, að færa góðar sönnur á mál sítt. En við rangindnm gefur maður hótanir og snoppunga.

---

## Hefndin.

Á Tyrkjalandi, þar sem allt fer ei með felldi á stundum, rak auðmaður nokkur fátækling frá sjer með höggum og slögum, er beiddist ölmusu, og kastaði steini á eptir honum, þá hann gat ekki seilzt til hans lengur. Þeim, sem horfðu á, gramdist þetta mjög; en enginn gat skilið í því, hvers vegna fátæklingurinn tók steininn upp þegjandi, og stakk honum í vasa sinn, og engum datt það í hug, að hann bæri steininn æfinlega á sjer, upp frá því, eins og hann gjörði. Að ári liðnu rataði auðmaðurinn í ógæfu, er hann framdi níðingsverk, og var því ekki að eins sviptur aleigu sinni, heldur varð hann til minkunar að ríða öfugur á asna um alla borgina, eins og landsvenja var til. Smán og svívirðingu rigndi óspart niður á hann, og maðurinn með steininn, sem enginn vissi, hvernig á stóð, var líka viðstaddur, og þekkti nú allt í einu þann, sem hafði áður misboðið honum. Þá þrífur hann óðar í vasa sinn eptir steininum, og reiðir hann

þegar upp, til að kasta honum á manninn; en í sama bili lætur hann steininn detta úr hendinni á sjer, rjett eins og einhver góður andi hefði skotið honum því í brjóst, og gengur þaðan í þungum þönkum.

Af þessu má tvennt læra: í fyrsta lagi: maður á hvorki að vera drambsamur í meðlætinu, nje óblíður, og ekki misbjóða lítilmögnum eða fátæklingum. Því himininn, sem að morgni er heiður og bjartur, getur að kvöldi orðið skýjaður og dimmur, og sá, sem ekki getur liðsinnt þjer sem vinur, getur, ef til vill, orðið þjer til mikils meins, sem óvinur. Í öðru lagi: maður á aldrei að bera stein í vasanum nje hefnd í brjósti gegn óvin sínum. Því þá hinn fátæki ljet steininn detta, og fór í burt, sagði hann við sjálfan sig: það hefði verið heimskulegt og hættulegt fyrir mig, að hefna mín á óvin mínum, meðan hann var ríkur og lánsamur; það væri ómannlegt og níðingslegt að gjöra það nú, eptir að hann hefur ratað í ólánið.

## Friðsemi.

Maður nokkur skýrði vini sinnm frá þeim leindardómi, hvernig hann gæti ávallt með góðu komið sjer saman við jafnvel hina jögunarsömustu og ósanngjörnustu menn. Hann sagði: „Hinn hyggni og heimskinginn geta aldrei togazt á um neitt, því þegar heimskinginn dregur að sjer, slakar sá hyggni til, og þegar hinn slakar til, dregur þessi að sjer. En þegar tveir heimskir togast á um eitthvað, geta þeir slitið í sundur járnfestar.“

## Kænn kaupmaður.

Frakkneskur kaupmaður kom frá Austurálfunni, og hjelt heim á leið með skip sitt, sem var hlaðið gulli og gersemum, og var þegar farinn að gjöra ráð fyrir því með sjálfum sjer, að koma sjer upp skrautlegri höll einhverstaðar við sjó, og lifa þar, það sem eptir væri æfinnar, í dýrð og dálæti. En allt í einu

heyrðist hvellur, og skot reið af. Það var þá víkingur frá Alzír, sem nálgaðist, og ætlaði að hertaka þá, og flytja skemmstu leið þangað í þrældóm. Því gefist gott færi á því milli himins og hafs, að byggja hallir í loptinu, þá er einnig kostur á að ræna þar. Svona hugsaði að minnsta kosti víkingurinn með sjer. Til allrar gæfu hafði kaupmaðurinn á skipinu mann nokkurn með sjer frá Ragúsa, sem hafði þegar einu sinni verið í herleiðingu í Alzír, og þekkti því bæði málið þar og barsmíðina frá rótum. Kaupmaðurinn sagði við hann: „Nikulás, langar þig til að gjörast aptur bandingi þeirra í Alzír? Ef þú gjörir það, sem jeg skipa þjer, þá getur þú frelsað bæði þig og oss hina. Síðan fóru þeir í felur niður undir þiljurnar, svo að engin sál sást, nema Ragúsarinn, sem var einn uppi á þilfarinu. Þá víkingarnir sigldu að með leiprandi sverðum, og tóku til að kalla, að hinir kristnu hundar skyldu gefa sig upp, æpti Ragúsarinn á þeirra tungu, með eymdar hljóðum: Tschamiana, tschamiana halakna, bilabai

monaschid ana billah anzorum min almout. „Vjer erum allir dauðir úr pestinni, nema þeir, sem liggja við andlátið og þýzkur prestur og jeg. Hjálpið oss í hamingju bænum!“ En er víkingurinn heyrði, að hann var kominn fast að skipi, sem fullt var af pest, sortnaði honum fyrir augum af hræðslu. Hann ætlaði í dauðans ósköpum að bera vasaklútinn fyrir vitin á sjer, en af því hann hafði engan, varð hann að brúka ermina sína, og ljet óðar snúa skipinu undan, og kallaði upp: Laionzork Allahorraman arrahim attabarra laka it schanat chall. „Hinn náðugi og allíknandi guð hjálpi þjer, en farðu norður og niður með pestina þína. Þó skal jeg láta rjetta þjer eina flösku af vínediki.“ Síðan ljet hann rjetta honum ediksflöskuna á langri stöng, og sigldi svo burt allt hvað hann gat í gagnstæða átt.

Með þessu móti voru þeir svo heppnir, að komast úr háskanum, og kaupmaðurinn kom sjer síðan upp höll í nánd við Marseille, og gjörði Ragúsarann að ráðsmanni sínum æfilangt.

## Foreldrar og börn.

Ef maður tekur nokkuð eptir, sjer maður þrávallt, að börnin fara með mann á síðan, einmitt eins og maður hafði farið með foreldra sína, þá þeir voru orðnir ellihrumir. Þetta er og eðlilegt. Börnin læra það af foreldrunum; þau sjá og heyra ekki annað, og fylgja því dæminu, sem þau hafa fyrir augum. Þannig rætist það á hinn eðlilegasta hátt, sem ritað stendur: að blessun og bölvun foreldranna hvíli yfir börnunum og hríni á þeim.

Það eru, meðal annars, tvær sögur, sem sanna það, og er hin fyrri til eptirdæmis, þó hin síðari einnig eigi skilið, að hún sje höfð í minni.

Fursti nokkur hitti einu sinni, þá hann var að ganga sjer til skemmtunar, kappsaman og glaðlyndan bónda, sem var að vinna úti á akri, og gaf sig á tal við hann. Þá hann hafði skipt nokkrum orðum við hann, komst hann að því, að bóndinn var ekki sjálfur eigandi að akrinum, heldur leiguliði, og vann fyrir

3 mörk um daginn. Furstinn þurfti nú sjálfsagt að leggja meira á borð með sjer, dag hvern, þar hann hafði örðug stjórnarstörf á hendi, og gat því ekki, í svip, komið því fyrir sig, hvernig það væri mögulegt að komast af með ein 3 mörk dag hvern, og vera þó svo glaður í lund. Hann lýsti því líka yfir, að það gengi yfir sig. En maðurinn í vaðmáls mussunni svaraði: „Það færi ekki vel, ef jeg eyddi svona miklu. Jeg hlýt að láta mjer duga þriðjunginn. Öðrum hinna tveggja þriðjunganna ver jeg til að gjalda með skuld mína, og hinn set jeg á vöxtu.“ Þetta var furstanum eins óskiljanlegt. En hinn glaðværi bóndi hjelt áfram og mælti: „Jeg skipti ávinningnum milli mín og minna öldruðu foreldra, sem geta ekki unnið lengur, og milli barna minna, sem fyrst eru að læra það. Foreldrum mínum endurgeld jeg ást þá, sem þau auðsýndu mjer í æskunni: það er skuldin sem jeg greiði. Börnin vona jeg að slái ekki af mjer hendinni, þegar ellin beygir mig: það er höfuðstóllinn, sem jeg set á vöxtu.“

Var það ekkt vel sagt, og enn betur og dánumannlegar hugsað og breytt? Furstinn umbunaði ráðvendni þessa valmennis, tók að sjer syni hans, og þá blessun, sem hans deyjandi foreldrar höfðu lýst yfir honum, uppskar hann seinna meir ríkuglega, í ást og aðhjúkrun sinna þakklátu barna.

Annar fór hins vegar þannig með föður sinn, sem að sönnu var orðið vand farið með, sökum elli og lasburða, að hann langaði til að komast á fátækra spítalann, sem var þar í bænum; því hann vonaðist eptir að fá þar að minnsta kosti viðunandi aðhjúkrun, og verða laus við þau ámæli, sem hann ávallt varð að þola af syni sínum, og gjörðu honum súra æfina hjá honum. Þessi ósk kom hinum vanþakkláta syni vel, og fyrir sólarlag var þegar búið að koma veslings gamla manninum á spítalann. Þó var ekki allt þar, eins og hann vildi á kjósa, og bað því son sinn nokkru seinna, að veita sjer hinn síðasta velgjörning, og senda sjer einar rekkjuvoðir, svo hann þyrfti ekki að liggja á berum hálminum, á hverri

nóttu. Sonurinn valdi úr ljelegustu rekkjuvoðirnar, og skipaði syni sínum, sem var 10 vetra, að fara með þær til gamla nöldrunarseggsins í spítalanum. En það datt yfir hann, þá hann sá, að drengurinn faldi aðra rekkjuvoðina í skoti fyrir utan dyrnar, og fór síðan ekki nema með eina til afa síns. „Hvers vegna gjörðir þú þetta?“ spurði hann drenginn, þá hann kom aptur. „Jeg ætlaði að eiga hana, ef jeg þyrfti á að halda seinna meir,“ svaraði drengurinn þurlega og tilfinningarlaust, „þegar að því kemur, að jeg á að senda þig, faðir minn, eða hana móður mína, á spítalann.“

Hvað lærum vjer af þessu? Heiðraðu föður þinn og móðir, svo þjer vel vegni!

---

## Súvarov.

Maðurinn á að geta stjórnað geði sínu. Að öðrum kosti er hann ekki alls kostar vænn og heiðarlegur, og það, sem hann einu sinni hefur kannast við að sje rjett, það á hann

einnig að gjöra, ekki að eins í eitt skipti, heldur ætíð. Súvarov, hershöfðingi Rússa, sem Tyrkjar og Pólskir, Ítalskir og Sveissar þekkja dável, hafði harðan og strangan aga á hermönnum sínum. En það varðaði þó mestu, að hann gaf sjálfan sig undir þenna aga, eins og hann væri einhver annar, en ekki Súvarov sjálfur, og það bar við, optar enn einu sinni, að aðstoðarmenn hans urðu að skipa honum hitt eða þetta í nafni hans sjálfs. Hann hlýddi því líka undir eins grandvarlega. Einu sinni varð hann afar reiður við einhvern dátanna, sem hafði sjezt eitthvað yfir, og tók þegar til að berja á honum. Þá herti aðstoðarmaður hans sig upp, þar eð hann vildi bæði hershöfðingjanum og dátanum vel, gekk að honum skjótt og mælti: „Súvarov hershöfðingi hefur skipað, að menn ættu aldrei að láta reiðina yfirbuga sig.“ Súvarov hætti þá óðar, og sagði: „Ef hershöfðinginn hefur skipað svo fyrir, þá er sjálfsagt að hlýða því.“

---

## Sjúklingurinn, sem varð heill heilsu.

Auðmennirnir eiga þó, með öllum maurunum, við margan ófögnuð og kvilla að berjast, sem guði er svo fyrir þakkandi, að fátæklingurinn veit ekkert af að segja; því til eru þeir kvillar, sem felast ekki í loptinu, heldur í kúfuðum krásardiskum og blikandi staupum, í mjúkum hægindastólum og silkibeðum, og getur flugríki maðurinn frá Amsterdam sagt sögu um það. Allan fyrri hluta dagsins sat hann annaðhvort í legustólnum reykjandi, eða hann lá úti í glugganum, og taldi þaksteinana á húsunum; en um miðjan daginn fór hann þó að mat sínum, eins og sá, sem hefur unnið baki brotnu liðlangan daginn, svo að nábúar hans sögðu opt sín á milli: „Er hann farinn að hvessa, eða er það nábúinn sem másar?“ Allan seinni hluta dagsins og liðlangt kvöldið var hann að jeta eða drekka, út úr leiðindum, ýmist heitt eða kalt, þó hann hvorki væri innantómur nje hefði matarlyst, svo að það

var bágt að segja nokkurntíma, hvenær miðdagsverðurinn endaði, eða kvöldverðurinn byrjaði. Þegar hann var búinn að snæða á kvöldin, fór hann að hátta, og var svo lúinn, eins og hann hefði verið að rogast með grjót eða kljúfa eldivið allan daginn. Af þessu varð hann að lokunum eins digur og naut, og gat naumast komizt úr sporunum. Hann hafði ekki lengur lyst á að jeta eða sofa, og var tímunum saman hvorki heill nje vanheill, eins og opt ber við; þó gengu að honum 365 kvillar, ef maður ætti að trúa honum sjálfum, nefnilega: sinn hvern daginn. Hann leitaði ráða til allra lækna í Amsterdam, og setti í sig ósköpin sjálf af allskonar lyfum, svo að menn, í skopi, kölluðu hann að lokunum ekki annað, enn tvífættu lyfjabúðina. En allt þetta meðalasull varð þó að engu liði; því hann fór ekki eptir því, sem læknararnir ráðlögðu honum, en sagði allajafna: „Guð varðveiti mig, til hvers er jeg þá ríkur, ef jeg á að hafa hunda viðurværi, og læknirinn getur ekki læknað mig fyrir alla peningana mína!“

Loks heyrði hann læknis getið, sem átti heima 10 þingmannaleiðir þaðan, og var svo framúrskarandi, að sjúklingarnir urðu heilir, ef hann að eins leit á þá, og dauðinn gekk úr vegi fyrir honum, þar sem hann ljet sjá sig. Hann treysti þessum manni til að lækna sig, ritaði honum því til, og skýrði honum frá, hvernig hann væri á sig kominn. Læknirinn sá undir eins, að hann þurfti ekki meðala við, heldur hófsemdar og hræringar, og sagði svona við sjálfan sig: „jeg skal bráðum lækna þig karlkynd!“ Hann ritaði honum því á þessa leið: „Góði vinur! þjer segið ljótar sögur af yður. Þó mun jeg geta hjálpað yður, ef þjer farið að ráðum mínum; það er hvorki meira nje minna, enn að það er hræðilegt kvikindi innan í yður; það er ormur með 7 kjöptum. Jeg verð nú sjálfur að tala við þenna orm, og þjer verðið því að koma til mín. En í fyrsta lagi megið þjer hvorki aka nje ríða, heldur ferðast á hestum postulanna; því ella kemur hristingur á orminn, svo hann bítur í einu 7 garnir innan í yður sundur í miðju. Í öðru

lagi megið þjer ekki jeta, nema þrisvar á dag: um miðjan daginn dálítið af kálmeti með sperðils bita, á kvöldin eitt egg linsoðið, og að morgni til fáeina spæni af kjötsúpu með lauk í. „Ef þjer bregðið út af þessu, verður yður ekki gott af, heldur orminum, sem vex af því meir og meir, og herðir svo að lifrinni í yður, að það verður kistusmiðurinn, en ekki skraddarinn, sem mun búa til utan um yður. Þetta er ráð mitt, og ef þjer hlýðnizt því ekki, þá mun yður aldrei auðnast að heyra gaukinn hneggja að vori. Nú getið þjer gjört það, sem yður þykir ráðlegast.“

Þegar sjúklingurinn var búinn að fá brjefið, ljet hann þegar að morgni dubba upp stígvjelin sín, og lagði af stað, eins og læknirinn hafði mælt fyrir. Fyrsta daginn gekk honum svo seint ferðin, að snígill hefði hæglega getað verið fyrirreiðarsveinn hans; þá einhver kastaði á hann kveðju, tók hann ekki undir, og sneiddi ekki hjá ormunum, sem urðu fyrir honum, heldur trað þá í hel. En annan og þriðja morguninn fannst honum, að fuglarnir

hefðu aldrei sungið eins fagurt, nje döggin verið svo ylmandi, nje kornblómin á mörkinni svo fagurblá, og allir, sem mættu honum, voru svo vingjarnlegar ásýndar, ekki síður enn sjálfur hann, og allt þótti honum verða fagrara með hverjum degi, er hann lagði upp frá áfangastað sínum; en að hálfum mánuði liðnum, þegar hann kom til bæjarins, þar sem læknirinn átti heima, og fór á fætur næsta morgun, var hann svo heilbrigður, að hann sagði við sjálfan sig: mjer gat aldrei batnað á óhentugri tíma, enn núna, þegar jeg á að leita læknirsins. Það vildi jeg að jeg hefði, þó ekki væri nema dálitla suðu fyrir eyrunum, eða einhvern snert af ógleði!“ Þá hann hitti læknirinn, tók hann í hendina á honum, og mælti: „Segið mjer nú greinilega frá, hvernig yður líður, og hvað að yður gengur.“ En sjúklingurinn sagði: „Það gengur, guð' sje lof, ekkert að mjer, herra læknir, og það væri fögnuður fyrir mig, ef þjer væruð eins heill og hraustur og jeg.“ Þá mælti læknirinn: „Einhver góður andi hefur hvíslað því að yð-

ur, að fara að ráðum mínum. Það er nú búið að flæma orminn í burt, en eggin hans eru enn þá í maganum á yður; þess vegna hljótið þjer að fara gangandi heim aptur, og saga svo iðuglega eldivið, þegar enginn sjer til, og jeta ekki meir enn þjer hafið lyst á, svo að eggin ungist ekki út. Ef þjer gjörið þetta, mælti hann, og brosti við, þá getið þjer enn orðið gamall maður.“ En ríki maðurinn frá Amsterdam mælti: „Þjer eruð kænn, læknir góður, jeg skil yður dá vel.“ Hann fór og sífellt að ráðum hans eptir þetta, og komst hátt á níræðis aldur. Hann var hraustur eins og hestur, og gaf læknirnum á hverjum nýársdegi 100 dukátur, með þeirri orðsendingu, að ormseggin stæðu í stað.

---

## Ófarir Leidensborgar.

---

Borg þessi hefur frá alda öðli heitað **Leiden** (þjáning), og vissu menn aldrei hvers vegna hún var kölluð svo, fyr enn 12. janúar 1807.

Hún liggur við Rínarfljótið í konungsríkinu Hollandi. Á þeim tímum voru þar 11,000 hús og 40,000 innbúar, og var hún, óhætt að segja, stærsta borgin í ríkinu, næst Amsterdam. Hinn áminnsta dag var farið á fætur í sama mund og vant var; sumir gjörðu morgunbæn sína, og hinir slepptu því, en enginn gjörði sjer í hugarlund, hvernig skipast mundi til áður kvöld væri komið, jafnvel þó skip nokkurt læi innarlega í borginni, með 70 ámum af púðri. Menn snæddu middegisverð sinn, eins og vant var, með beztu matarlyst, þó skipið læi þarna. En eptir miðjan dag, þá vísirinn á stóru turnklukkunni var mitt á milli 4 og 5, — iðjumennirnir voru heima við vinnu sína, mæðurnar vögguðu börnum sínum, kaupmennirnir störfuðu að verzlun sinni, börn voru komin í kvöldskólann, yðjuleysingjunum leiddist í veitingahúsinu við spilin og vínflöskurnar, sumir voru áhyggjufullir, og voru sjer út um mat, drykk og klæði til næsta morguns, og einhver þjófurinn var má ske einmitt að reyna falslykil sinn í ein-

hverri skránni, — þá kom ógurlegur brestur allt í einu. Skipið með hinum 70 ámum af púðri, sem hafði kviknað í, sprakk í lopt upp, og í einu vetfangi (það verður ekki lesið eins fljótt og það skeði) gjöreyddust endilöng stræti að húsum, sem annaðhvort splundruðust út í loptið, með mönnum og öllu því, sem í þeim var, hrundu niður í grunn eða skemmdust afskaplega. Mörg hundruð manna grófust bæði dauðir og lifandi undir rústunum, eða limlestust. Þrjú skólahús fórust ásamt öllum börnunum sem inni voru; menn og skepnur, sem voru í nánd, þar sem ógæfan vildi til, sentust í lopt upp af púðurmagninu, og duttu hörmulega útleiknir niður aptur. Til allrar ógæfu kom með fram upp eldur í húsum, sem geysaði hvervetna, og varð naumast slöktur, þar eð kviknaði í mörgum vörubúðum, sem voru full af ólíu og lýsi. Átta hundruð meðal hinna skrautlegust húsa hrundu annaðhvort saman eða urðu að rífast niður. Þá sá maður hjer, hvernig allt getur auðveldlega horfst öðruvísi á að kvöldi, enn um morguninn, ekki

að eins fyrir hverri einstakri mannskepnu, heldur stórum og fjölmennum stað. Konungurinn í Hollandi hjet undir eins verðlaunum fyrir hvert mannsbarn, sem varð bjargað lifandi. þeir dauðu, sem voru grafnir upp, voru fluttir upp í ráðhúsið, svo að ættinngjar og vandamenn gætu sótt þá, og veitt þeim heiðarlega útför. Hjálp og líkn kom úr öllum áttum. Já, þó ófriður væri milli Englands og Hollands, voru þó margir skipsfarmar af alls konar nauðsynjum og ærið fje sent frá Lundúnum, hinum ógæfusömu til hjálpar; og það er fallega gjört! því stríðið ætti aldrei að gagntaka hjörtu manna. það er nóg hörmung, þegar það geysar fyrir utan öll borgarhlið og hafnir.

---

## Arðsamar gátur.

---

Einu sinni fóru 11 menn saman frá Basel á skipi niður eptir Rínfljótinu. Gyðingi nokkrum, sem ætlaði til Schalampi var lofað

að vera í einhverju horninu, ef hann hegðaði sjer vel, og borgaði skiparanum 2 mörk í þóknun. Að sönnu hringlaði í, þá Gyðingurinn sló á vasann; en hann hafði þó ekki á sjer, nema 8 sk., því hitt var látúnshnappur. Samt sem áður tók hann boðinu með mestu þökkum, því hann hugsaði með sjálfum sjer: „Jeg skal aldrei trúa því, að jeg geti ekki grætt eitthvað á vatni, eins og á landi; því margur hefur makað krókinn á henni Rínará.“

Í fyrstu skemmtu menn sjer með ýmsum gamanræðnm, og Gyðingurinn, sem sat í horni sínu með þverpokann sinn á bakinu — því hann lagði hann ekki frá sjer — fjekk margt óþvegið orð í eyra, eins og tíðum ber við, að menn gjöra sjer dællt við slíka menn, þó syndsamlegt sje. En þegar dælan var búin að ganga stundarkorn, fór hver af öðrum að þagna, og geispa, og mæna niður eptir hinu langa Rínfljóti, þangað til einn tók til aptur, og mælti: Getur þú ekki gjört oss neitt til skemmtunar, Gyðsi góður? Forfeður þínir

hafa þó hlotið að hafa hugsað um hitt og þetta í hinni löngu eyðimörku.“

Gyðingurinn hugsaði þá með sjer, að nú væri tíminn kominn til að rýja kindina, og stakk upp á því, að hver af öðrum skyldi bera upp alls konar skrítnar spurningar, og kvaðst þá, með þeirra leyfi, mundi verða með í leiknum. Sá, sem ekki gæti svarað, skyldi gjalda spyrjandanum 12 sk., en sá, sem svaraði rjettu til, skyldi fá 12 sk. Allir fjellust vel á þetta, og þar eð þeir væntu sjer gamans af heimsku eða fyndni Gyðingsins, spurði hver að því, sem honum datt í hug, eitthvað út í bláinn. Þannig spurði t. a. m. sá fyrsti: „Hvað mörg linsoðin egg gat kempan Golíath jetið fastandi?“ Allir sögðu, að það væri ómögulegt að geta þess, og guldu sína 12 sk. En Gyðingurinn svaraði; „Ekki nema eitt, því þegar einhver er búinn með eitt egg, þá er hann ekki lengur fastandi.“ Hann vann 12 sk.

Annar hugsaði með sjer: „Bíddu við Gyðsi minn, jeg skal spyrja þig úr nýja testament-

inu, og þá skal jeg lofa þjer því, að þú skalt út með þína 12 sk.: „Hvers vegna ritaði postulinn Páll brjefið til Korintumanna?“ Gyðingurinn anzaði: „Hann hefur sjálfsagt ekki verið hjá þeim, því annars hefði hann getað sagt þeim það munnlega.“ Nú vann hann aptur 12 sk.

Þegar sá þriðji sá, að Gyðingurinn var svo vel heima í biblíunni, hafði hann annað lag: „Hver dregur vinnu sína á langinn, og verður þó búinn í tækan tíma?“ Gyðingurinn svaraði: „Kaðlarinn, þegar hann er iðinn.“

Sá fjórði spurði: „Hver er það, sem tekur menn við nef[1], og fær peninga í tilbót?“ „Skeggrakarinn;“ mælti Gyðingur.

Á meðan nálægðist skipið bæ einum, sem einhver sagði, að hjeti Bamlach. Þá spurði sá fimmti: „Í hvaða mánuði jeta Bamlacharnir mest?“ Gyðingurinn mælti: „Í febrúarmánuði, því hann hefur að eins 28 daga.“

---

[1]) Á dönsku: „At tage en ved Næsen,“ sem merkir: að leika á einhvern.

Sá sjötti sagði: „Hvernig á að skilja það: tveir bræður samfeðra og sammæðra, og þó er ekki nema annar föðurbróðir minn?“ Gyðingurinn mælti: „Föðurbróðirinn er bróðir föður yðar; faðir yðar er ekki föðurbróðir yðar.“

Nú stökk fiskur upp úr fljótinu, þá spurði sá sjöundi: „Á hvaða fiskum er skemmst á milli augnanna?“ Gyðingurinn mælti: „Á þeim minnstu.“

Sá áttundi spurði: „Hvernig getur maður á sumrin riðið í forsælu frá Bern til Basel, í glaðasta sólskini?“ Gyðingurinn svaraði: „Þar sem engin forsæla er, verður maður að fara af baki og ganga.“

Sá níundi: „Hvað er það, sem maður hefur á hægri hönd, þegar maður ríður frá Basel til Bern, og sem maður hefur á sömu hönd, þegar maður ríður frá Bern til Basel?“ „Fimm fingur,“ svaraði Gyðingurinn, „ef engan vantar.“

Þá spurði sá tíundi: „Hvar sló Nói fyrsta naglann í örkinni?“ Gyðingurinn svaraði: „Á hausinn.“

Nú var sá ellefti eptir. Hann spurði: „Hvernig geta fimm menn skipt þannig fimm eggjum með sjer, að hver fái eitt, og þó verði eitt eptir í fatinu? Gyðingurinn mælti: „Sá seinasti verður að taka fatið ásamt egginu. svo getur hann látið það liggja þar eins lengi og hann vill.“

Nú kom röðin að honum sjálfum, og hugsaði hann sjer að veiða vel. Með miklu dekri og kýmnislegri blíðu spurði hann: „Hvernig fer maður að steikja 2 kola í þremur pönnum þannig, að 1 koli sje þó í hverri pönnu?“ Enginn gat svarað, og galt því sjerhver Gyðingnum 12 sk. það mun víst heldur engum dauðlegum unnt að ráða gátu þessa; enda stóð það líka í Gyðingnum sjálfum; því þegar hinir 11 skoruðu á hann að gjöra það, þar eð þeir væru búnir að gjalda fyrir sig, hugsaði hann sig lengi um, snjerist á hælunum, yppti öxlum, og blimskakkaði augunum. „Jeg er aumingja Gyðingur,“ sagði hann að lokunum. Hinir mæltu: „Hvaða vífilengjur eru þetta? Út með það!“ „Virðið mjer til

vorkunar,“ svaraði hann, „jeg er ekki nema vesslings Gyðingur.“ Loks þegar þeir voru búnir að nauða lengi við hann, og sögðust ekki skyldu virða honum það á verri veg, þreif hann í vasa sinn, tók upp 12 sk., lagði þá á borðið, sem stóð á þilfarinu, og mælti: „Jeg veit það heldur ekki. Hjerna eru mínir 12 sk.“

Þegar hinir heyrðu þetta, settu þeir að sönnu upp stór augu, og sögðu að veðmálið væri ekki svona. En þar eð þeir allir voru vel fjáðir og vænir menn, og hinn hebreski samferðamaður hafði skemmt þeim mest alla leiðina, þá ljetu þeir það gilda, og Gyðingurinn fór þannig í land, með hvað marga dali, mörk og skildinga? Þetta getur hver yðinn og efnilegur drengur reiknað fyrir mig í huganum. Í fyrstu hafði hann 1 áttskilding, og 1 látúnshnapp; svo vann hann 11 tólfskildinga á því að ráða gátur, og 11 á gátunni, sem hann bar sjálfur upp; eina tólf sk. galt hann aptur, og skiparinn hafði fengið 2 mörk í þóknun.

---

# Níðritið.

Þá níðrit nokkurt um Friðrik mikla Prússakonung var fest upp á gatnamótum í Berlín, og einhver þjónustumaður hans sagði honum frá því, með þessum orðum: „Yðar hátign hefur verið veittur sá sómi í nótt, sem ekki er meir enn svona og svona mátulegur. Jeg gat ekki lesið allt, af því ritið hjekk of hátt uppi; en það, sem jeg gat lesið, var ekki há göfugt,“ þá mælti konungur: „það á að hengja ritið neðar, og setja varðmenn við, svo að sjerhver geti lesið, hvaða óhræsismenn sjeu til.“ Upp frá því var þetta aldrei leikið framar.

Bæjarfógetanum í Brassenheim leizt að hafa það öðruvísi. Einu sinni einn morgun var honum fært níðrit, sem einhver hafði klínt á útidyrnar hjá honum um nóttina. Hann varð uppvægur, æddi um allt húsið aptur á bak og áfram bölvandi og ragnandi, og fótbraut eina köttinn, sem til var í húsinu, svo að frúin varð bálvond og sagði: „Ertu vitlaus, maður! eða hver fjandinn gengur að þjer?“

„Hana! Lestu!“ mælti fógetinn; „þú hefur líka fengið sköfuna óskafna.“

Þegar þorpararnir, sem höfðu klínt upp níðritinu, frjettu það, að bæjarfógetinn hefði reiðst svona ógurlega, var þeim ekki lítið dillað, og sögðu sín á milli: „Við skulum gjöra þetta aptur í nótt.“ Næsta morgun var honum fært hið nýja níðrit; það var þá í því fyrirsögn um, hvernig ætti að fara með lemstraða ketti, og nú varð hann hálfu æfari enn áður, ag kastaði borðum og bekkjum um, já, ritaði gremjufulla skýrslu um þetta til amtmannsins, þó hann gæti engan nafngreint; en þegar hann var búinn, og ætlaði að strá sandinum á, vildi hvorki betur nje ver til, enn að hann tók blekbittuna í staðinn fyrir sandbittuna, í ösköpunum, og hellti úr henni öllu blekinu bæði yfir skýrsluna og hvítu buxurnar, sem hann var í.

En um kvöldið sagði hann við þjón sinn: „Hans Kristófer,“ sagði hann, „vaktu nú úti í nótt, þangað til haninn galar, og ef þú nærð skelmirnum, skal jeg gefa þjer 1 dal í

heilu lagi. „Mjer þykir gaman að vita,“ bætti hann við, „hvert þeir skulu lengi leika svona á mig.“

Undir miðnætti kom Kristófer inn úr launsátrinu, og var þá fógetinn enn á flakki, svo að hann gæti svalað sjer á níðhöfundinum, og lagt hann til bana undir eins og Kristófer kæmi með hann. — „Herra bæjarfógeti,“ mælti Kristófer, „jeg ætlaði að láta yður vita, að ekkert hefur borið til tíðinda í nótt, svo að þjer má ske vilduð gjöra svo vel, að lofa mjer að fara að hátta. Það er búið að slökkva allstaðar, allir eru farnir úr veitingahúsunum, tveir þeir seinustu eru farnir heim, og haninn hans Sörins snikkara er búinn að gala tvisvar, hvað eptir annað; svo það kemur líklega úr honum á morgun aptur. „Þá æddi bæjarfógetinn að honum hamslaus, og sagði í heimsku bræði sinni: „Snáfaðu undir eins út aptur, nautið þitt, og farðu ekki eitt fet inn, fyr enn birtir, eða jeg skal ganga næst lífi þínu.“ Hinn góðfúsi lesari hugsar nú, ef til vill: „Viti menn, á meðan Kristófer er inni,

verður líklega búið að klístra upp þriðja níðritinu, sem hann nú finnur, þegar hann kemur út. En það verður ekki af því. Þegar Kristófer var á leiðinni út, og bæjarfógetanum varð litið á bakið á honum, kallaði hann á Kristófer og sagði: „Heyrðu mjer um hálft orð! Víktu þjer við! Hvað er aptan á þjer?“ — „Guð varðveiti mig,“ mælti Kristófer, „það er þó víst ekki búið að brennimerkja mig!“ — „Ónei, asninn þinn,“ svo sem hinn tiltók, „en líklega ert þú sjálfur að dandalast með eitt níðritið um allar trissur.“ Þetta var orð, og að sönnu; Kristófer bar þriðja níðritið á bakinu, hálfu meinyrtara, enn hitt, og var í því, meðal annars, fyrirsögn um, hvernig ætti að ná blekblettum úr fógetabuxum. Þetta æxlaðist svona til: á meðan Kristófer sat úti, bar þangað tvo gárunga að; annar þeirra hjelt á þriðja níðritinu í lófanum, og snjeri því óskrifaða út, sem klístur var borið á, svo að hann þurfti ekki annað, enn sletta blaðinu á dyrnar um leið og hann fór fram hjá. En þegar þeir sáu Kristófer á þrepinu fyrir utan dyrnar —

hann var alþekktur, þó hann þekkti sár fáa — sagði annar: „Nei! gott kvöld, Kristófer! hvað ertu að gera? Jeg skal veðja, að þú kemst ekki inn?“ Þá sagði hann þeim frá, hvers vegna og hvað lengi hann ætti að sitja þar, að sjer væri farið leiðast, og þó kæmi enginn. „Nú er jeg öldungis hissa,“ sagði annar, „það er búið að slökkva allstaðar í bænum, engin sál er í veitingahúsunum, og við erum þeir seinustu, sem förum heim. Þú getur því í herrans nafni farið að hátta!“ En hinn, sem hjelt á blaðinu í lófanum, klappaði laust og vingjarnlega á bakið á honum, í því hann fór, svo að blaðið festist á kjólnum, og sagði: „Góðar nætur, Kristófer minn! Sofðu vel!“ — „Í sama máta!“ svaraði Kristófer; og þegar þeir voru komnir fyrir hornið á húsinu, galaði annar þeirra tvisvar, eins og hani. Þannig færði Kristófer sjálfur fógetanum níðritið inn á bakinu. Að sönnu barði fógetinn hann á undan sjer miskunarlaust innan um allt húsið, og mölbraut tvo spegla; en skömminni, skaðanum og reiðinni varð hann að stinga

hjá sjer, og var engu bættari. Því báðir strákarnir sögðu: „Sá vægir, sem vitið hefur meira, og bezt er að hætta hverjum leik, þá hærst fram fer;“ en hver, sem heyrði þessa getið, hló að bæjarfógetanum.

Það er óefað, að konungurinn í Preussen fór skynsamlegar að ráði sínu, enn herra bæjarfógetinn í Brassenheim.

---

## Móses Mendelson.

---

Gyðingurinn Móses Mendelson var í þjónustu hjá verzlunarmanni nokkrum. Hann var enginn framúrskarandi gáfumaður. Eigi að síður var hann ráðvandur og hygginn, og var því í metum og hylli hjá hinum tignustu mönnum. Það er líka eðlilegt; því vegna skeggsins skyldu menn ekki fyrirlíta kollinn, sem það sprettur á. Móses þessi Mendelson vottaði, meðal annars, með því, sem nú segir, hvað ánægður hann var með lífskjör sín. Einhvern dag kom vinur hans til hans,

einmitt þegar hann var að brjóta heilann í þungum og flóknum reikningi, og mælti: „það er þó ófyrirgefanlegt, Móses minn, að þvílíkur gáfumaður, sem þjer eruð, skuli þjóna manni, sem hefur ekki meira vit, enn hann húsbóndi yðar hefur. það er meira vit í litla fingrinum á yður, enn í öllum búknum á honum. Einhver annar enn þjer hefði orðið bæði óður og ær, og fleygt pennanum og blekinu undir borðið, ragnandi og bölvandi, og látið húsbóndann lúta í lægra haldinu.“ En Móses Mendelson ljet blekbittuna standa, þar sem hún var, stakk pennanum aptur fyrir eyrað, horfði á vin sinn með mestu stillingu, og sagði við hann: „það fer dável, eins og er, og forsjónin hefur þannig raðað öllu vísdómslega niður; því með þessu móti hefur bæði húsbóndi minn gagn af mjer, og jeg uppheldi mitt hjá honum. Ef jeg hins vegar væri húsbóndinn, og hann skrifari minn, gæti jeg ekki notað hann til neins.“

---

# Mahómet.

Fyrst um sinn vildu ekki allir landar Mahómets trúa því, að hann væri spámaður, „af því hann hefði ekki gjört nein kraptaverk, eins og Elías.“ Mahómet ljet þetta ekki á sjer festa, og anzaði því blátt áfram, eins og sá, sem reykir tóbakspípu sína, og mælir svo hitt og þetta á meðan, og sagði: „Spámaðurinn gjörir enn þá engin kraptaverk. En, ef þjer krefjizt þess, þá skal jeg og fjallið þarna bráðum vera hvert hjá öðru.“ Hann benti nefnilega á fjall eitt, sem var eitthvað ½ mílu þaðan, og skipaði fjallinu, eins og hann væri sjálfur drottinn, að hefja sig upp frá rótum, og koma til sín. En er fjallið hvorki bærðist nje anzaði neinu, eins og ekki stóð til, þó að þögn sje einnig svar, tók Mahómet staf sinn í hægðum sínum, og gjekk til fjallsins. Með þessu gaf hann mönnum merkilegt eptirdæmi, — sem er jafnvel eptirbreytnisvert fyrir þá, sem ekki eru spámenn, — það nefnilega: að menn heimti það hvorki af undarlegum örlögum,

nje tíma, nje auðnu, nje mönnum, sem menn eru ekki sjálffærir um. Ef þú, t. a. m., átt eitthvert brýnt og áríðandi mál við einhvern, þá láttu það ekki dragast, þangað til hann kemur til þín. Það er fljótara og skynsamlegra, að þú farir til hans. Fagurt trje mundi víst hrósa sjer vel í aldingarði þínum. Jarðvegurinn er góður. Þjer tjáir ekki að bíða við, þangað til það vex af sjálfu sjer, heldur verður þú að gróðursetja það þar. Þannig verður maður að leggja hendur að hverju einu, sem maður vill, að eitthvað verði úr. Því verður naumast trúað, að þeir menn sjeu til, sem fyrst þurfi að láta arabiskan falsspámann kenna sjer þetta.

---

## Gott lækningablað.

---

Jóseph keisari í Vínarborg var, eins og alkunnugt er, bæði hygginn og góðgjörðasamur, en þó vita það ekki allir, hvernig honum fórst einu sinni að lækna fátæka konu. Kon-

an var veik, og sagði við son sinn: „farðu, barn mitt, og sæktu lækninn, jeg þoli ekki lengur við fyrir kvölum.“ Drengurinn hljóp fyrst til eins og svo til annars, en enginn fjekkst til að fara með honum, því í Vínarborg kostar það eitt gyllini í hvert skipti að vitja sjúklings, og veslings drengurinn hafði ekki annað að bjóða, enn tár, sem að sönnu eru álitnir góðir aurar á himnum, en ekki eru gjaldgeng hjá öllum í henni veröldu hjerna. Þegar hann var á leiðinni til þriðja læknisins, fór keisarinn í því framhjá, í opnum vagni. Drengurinn vissi ekki, að það var keisarinn, en hjelt það væri einhver ríkur höfðingi, og hugsaði sjer að biðja hann líknar. „Náðugi herra,“ mælti hann, „verið þjer svo miskunsamur að gefa mjer eitt gyllini!“ Keisarinn hugsaði með sjer: „Hann brúkar engar vífilengjur, og hugsar líklega, að hann þurfi ekki að biðja um smáskildingana eins opt, þangað til hann er búinn að fá eitt gyllini, ef hann fær það í einu. Nægir þjer ekki minna?“ mælti keisarinn. „Nei,“ segir dreng-

urinn, og sagði honum, hvað hann ætlaði að gjöra við peningana. Keisarinn gaf honum gyllinið, sem hann bað um, og ljet hann skýra sjer nákvæmlega frá, hvar móðir hans byggi, og hvað hún hjeti; en á meðan drengurinn hljóp til þriðja læknisins, og móðir hans lá þarna heima, og bað guð sjer til hjálpar, fór keisarinn heim að kofa hennar, og vafði yfirhöfnina utan um sig, svo að hann þekktist ekki, nema maður gætti því betur að. Þegar hann kom inn í hið tómlega og fátæklega herbergi konunnar, ætlaði hún það mundi vera læknirinn, og sagði honum, bæði hvað að sjer gengi, og að hún væri svo fátæk, að hún gæti ekki útvegað sjer neina aðhjúkrun. Þá mælti keisarinn: „Jeg skal skrifa fyrirsögn um meðöl handa yður;“ svo konan sagði honum, hvar skriffæri sonar síns væru. Síðan skrifaði hann fyrirsögnina, lagði hana á borðið, og sagði konunni, í hverja lyfjabúð hún skyldi senda, þegar sonur hennar kæmi heim; en þegar hann var að eins nýfarinn, kom hinn rjetti læknir. Konan furðaði sig ekki alllítið

yfir því, að hann væri læknir líka, og bað hann að hafa sig afsakaða, þar eð annar væri þegar búinn að vitja sín, og ráðleggja sjer nokkuð, og að hún biði nú einungis eptir syni sínum til að sækja það. En þegar læknirinn fór að skoða lækningablaðið, til að vita, hvaða læknir hefði verið þar, og hvaða lyf hann hefði ráðlagt henni, brá honum líka síður enn ekki í brún, og hann sagði: „Kona góð! Þjer hafið komizt í hendurnar á góðum lækn-ir, því hann hefur ráðlagt yður eitt hundrað dukátur, sem eiga að greiðast yður úr ríkis-sjóðnum, og fyrir neðan stendur: Jóseph, ef þjer hafið heyrt hans getið. Slíkan plást-ur, hjartastyrkingu og augnavatn hefði jeg ekki getað ráðlagt yður.“ Þá lypti konan augum sínum upp til himins, og gat ekki kom-ið upp neinu orði, sökum þakklátsemi og auð-mýktar. En peningarnir voru greiddir tafar-laust, og læknirinn gaf henni ráð, svo að hún komst á fætur að fáum dögum liðnum, er hún átti læknishjálp þeirri og aðhjúkrun að þakka, sem hún gat nú útvegað sjer. Þannig lækn-

aði lækirinn hina sjúku konu, og keisarinn hina fátæku.

---

## Ódýr miðdagsverður.

„Sjer grefur gröf þó grafi,“ segir gamall málsháttur; en veitingamaðurinn í gestgjafahúsinu Ljóninu, var þegar dottinn í hana áður. Svo stóð á, að maður vel búinn kom til hans, og bað hann, með heimtufrekju, um góða kjötsúpu fyrir sína peninga. Síðan bað hann um einn skamt af nautakjötssteik með kálmeti, fyrir sína peninga. Veitingamaðurinn spurði hann með mestu kurteysi, hvert honum þóknaðist ekki eitt staup af víni. „Það er mátulegt,“ anzaði hinn, „ef jeg get fengið eitthvað gott fyrir peninga mína.“ Þegar hann var búinn að gjöra sjer til góða, tók hann gamlan og gjör máðan áttskilding upp úr vasa sínum, og sagði: „Hjerna eru peningarnir mínir, herra minn!“ „Hvað á þetta að þýða?“ mælti veitingamaðurinn, „jeg á hjá yður einn dal.“ —

„Jeg hef ekki beðið yður um mat fyrir neinn dal,“ mælti hinn, „heldur að eins fyrir peninga mína. Hjerna eru mínir peningar. Jeg hefi ekki meira. Og það er yður sjálfum að kenna, ef þjer hafið látið mig fá of mikið fyrir þá.“

Þetta bragð var nú ekki svo sjerlega beisið. Til þess að gjöra það og annað eins, útheimtist óskammfeilni og ófyrirleitið kæruleysi, sem sútar ekki í, hvernig leikslokin muni verða. En nú tekur ekki betra við. „Þjer eruð mesti húðarskelmir,“ mælti veitingamaðurinn, „og ættuð allt íllt skilið. En jeg skal gefa yður máltíðina og 2 mörk að auk, ef þjer þegið, og leikið eins á nábúann á móts við mig, veitingamanninn í Byrninum.“ Þetta sagði hann, af því hann var í óvináttu við þenna nábúa sinn, vegna öfundar, og báðir vildu ríða skóinn, hvor af öðrum, í öllu, sem þeir gátu. En þessi slægi gestur tók með annari hendinni glottandi við peningunum, sem hinn rjetti að honum, en seildist með hinni í hurðina, bauð veitinga-

manninum góðar nætur, og sagði um leið: „Jeg var búinn að koma til nábúa yðar í Byrninum, og það var einmitt hann, og enginn annar, sem sendi mig hingað.“

Svona höfðu báðir, í rauninni, verið gabbaðir, og þriðji maður hafði hagnaðinn af því. En bragðarefurinn hefði ofan í kaupið átt skilið þakklæti af þeim báðum, ef þeir hefðu látið sjer þetta að kenningu verða, og sætzt hvor við annan; því friðurinn er fyrir öllu, en þar sem öfund og deilur eru, þar er vanskikkan og öll ill viðskipti.

---

## Ráð við deilum og áflogum.

Hjónum einum kom prýðilega saman, nema hvað þau rifust dálítið einstöku sinnum, þegar svo bar undir, að maðurinn hafði eitthvað í kollinum. Þá jókst svona orð af orði, og seinasta orðinu fylgdu jafnaðarlega bláir blettir. Maðurin sagði, til að minda: „Nú er súpan, enn þá einu sinni, ekki nógu sölt, hjartað mitt!“

þá mælti konan: „Hún er einmitt eptir mínu geði.“ Þá fór nú blóðið að síga til höfuðsins á manninum, og hann segir: „Er það konulegt að svara manni sínum svona, hnýsan þín? Á jeg að fara eptir þjer?“ Þá mælti konan: „Saltkerið er úti í eldhúsi. Í annað skipti geturðu sjálfur soðið ofan í þig, eða þú verður að fá einhverja aðra til þess, enn mig.“ Maðurinn varð sótrauður í framan, og henti diskinum með súpunni og öllu saman fyrir fæturna á konu sinni. „Hana! jettu sullið þitt sjálf!“ Þá tekur konan til, líkt og þegar maður tekur upp straumhlemm, og vatnið beljar í stokkinn, og öll mylnuhjólin fara að snúast: hún eys yfir hann skömmum og hrakyrðum, sem engum manni kemur vel að heyra, sízt til konu, og allrasízt til egin konu sinnar. Þá segir maðurinn: „Mjer sýnist nú ekki vanþörf á, að jeg beri aptur á þig ögn af lurkafeiti.“ Loksins fór konan að trjenast upp við þessi ástaratlot, og bar sig upp við sóknarprestinn. Hann var kænn og laglegur í sjer, og sá undir eins, að það var konunni sjálfri að kenna,

hvernig maður hennar fór með hana, þar hún stóð ætíð upp í hárinu á honum, og deildi við hann. „Gaf formaður minn yður aldrei neitt af vígða vatninu?“ mælti prestur. „Komið þjer til mín aptur að klukkutíma liðnum!“ Á meðan fyllti hann dálitla flösku, sem tók hjer um bil hálfa mörk, með hreinu og tæru brunnvatni, og ljet sikur og einn dropa af rósenolíu saman við, svo að það varð bæði sætt og ylmandi. Þegar konan kom aptur, sagði hann: „Þjer verðið ætíð að bera þessa flösku á yður eptirleiðis, og hvenær sem maður yðar kemur úr veitingahúsinu, og ætlar að fara að rífast við yður, þá skuluð þjer súpa gúlsopa yðar úr flöskunni, og halda honum upp í yður, þangað til hann hættir; þá mun hann aldrei ná að reiðast, nje geta fengið það af sjer, að berja yður framar.“ Konan fór að þessum ráðum; vígða vatnið reyndist prýðilega, og nábúarnir sögðu opt sín á milli: „Nábúar vorir eru orðnir að öðrum mönnum. Nú heyrist ekkert framar.“ — Taki menn eptir!

---

# Sonarástin.

Ekkja nokkur, sem átti 3 syni, var í mestu bágindum, þar eð synirnir voru ekki færir um að hafa bæði ofan af fyrir henni og sjer. En einmitt, þegar neyðin var orðin mest, var auglýsing ein birt um allt landið, og hverjum heitið vissum verðlaunum, sem gæti náð alræmdum stigamanni einum, og selt hann í hendur yfirvöldunum. Bræðurnir tóku sig nú saman um, á laun við móðurina, að einn þeirra skyldi látast vera stigamaðurinn, og hinir báðir skyldu vitna á móti honum. Síðan vörpuðu þeir hlutkesti um, og varð yngsti bróðirinn fyrir því. Hinir sögðu til hans; hann var settur í dýflissu, og hin heitnu verðlaun voru greidd. En bróðurástin vaknaði bráðum hjá þeim, og blóðið fór að renna til skyldunnar; þeir sóktu um að mega vitja hins svo ætlaða óbótamanns í fangelsinu, og fengu það, og þar grjetu þeir sameginlega yfir þessum óförum. Fangavörðurinn varð forvitinn og stóð á hleri, og heyrði ekkert nema grát og andvörp; en

þar eð bræðurnir töluðu ekkert orð, sem gat gjört hann neins vísari, fór hann með þeim heim til þeirra, og heyrði, þegar móðirin, sem þá komst að óyndisúrræðum sona sinna, kallaði upp: „Nei! jeg vil heldur þúsund sinnum deyja, enn lifa af blóði míns saklausa sonar!“ Fangavörðurinn var ekki seinn á sjer, og flýtti sjer til dómarans, sem varð gagntekinn af undrun og meðaumkvun. Hann ljet óðara sækja bandingjann og rannsakaði mál hans að nýju, en fjekk ekkert upp úr honum, nema það, sem hann hafði áður skýrt frá. Dómarinn sagði honum þá, að hverju hann væri búinn að komazt, ljet síðan sækja bræður hans, og komst svo loks að sannleikanum. Því næst sendi hann konunginum skýrslu um alla málavöxtu, og hann ljet upp frá því, á ári hverju, greiða yngsta bróðurnum 1,500, en hverjum hinna 500 mörk í sylfri.

---

## Sinn er siður í landi hverju.

Í Norðurálfunni rita menn frá vinstri til hægri handar, í Kína þar á móti frá hægri til vinstri.

Spjátrungarnir í Norðurálfunni stæra sig af fögru, þykkvu og lokkríku hári; spjátrungar Kínverja eru aptur á móti hreyknir af sköllóttu höfði, sem er snoðrakað, að fráteknum hárpísknum.

Norðurálfubúar drekka ískalt í sumarhitanum; en í Kína drekka menn því heitara tevatn, sem heitara er í veðrinu.

Í Norðurálfunni eru sjúklingar látnir borða lítið, en mikið í Kína.

Norðurálfubúinn auðsýnir öðrum lotningu með því að taka ofan, en Kínverjinn setur upp í virðingar skyni.

Í Norðurálfunni er hefðarsætið hægramegin; í Kína vinstramegin.

Eins og dansleikar eru almennt í afhaldi í Norðurálfunni, svo eru þeir fyrirlitnir í Kína, hvar aðrir sjást ei danza enn leikarar.

Í Norðurálfunni er sorgarbúningurinn svartur; í Kína er hann hvítur, og geyma menn þar svörtu fötin til hátíða og tillidaga.

Í Norðurálfunni er þess krafizt af börnunum, að þau sjeu kyrlát í skólanum; í Kína er þeim þar á móti haldið til að læra það, sem þeim er sett fyrir, hátt og snjallt. Þegar hvert barnið, og það þar, sem mörg eru saman í skóla, æpir eins hátt og það getur, þá er kennarinn fullkomlega ánægður með þau.

En, það sem ólíkast er, er málið; því það stendur á sama hvað Kínverjar mæla, þeir munu þó ætíð byrja með því, sem vjer hættum, og enda með því, sem ver byrjum.

Í Norðurálfunni leitast maður við að burtrýma allri endurminningu um dauðann; en í Kína er það fagnaðar efni að sjá líkkistu. Hverjum ætli það ditti í hug, að gefa frændum eða vildustu vinum sínum — líkkistu? Í Kína þykir mönnum þar á móti mikið koma til þvílíkrar gjafar. Líkkistan er þar eins og einhver dýrgripur, sem er látinn standa til sýnis þangað til hún er notuð. Þegar einhver

andast í einhverju húsi í Norðurálfunni, er mönnum optast hugleikið að koma því sem fyrst í burt þaðan. Í Kína hafa menn hinsvegar líkið eins lengi hjá sjer og unnt er, og setja kistuna þar sem hún blasir bezt við öllum, sem inn ganga. Keisarinn sjálfur forðast eins lítið og þegnar hans,, að hugsa um dauðann, og hafa hann iðuglega fyrir sjónum. Þegar nýr keisari kemur til ríkis, þá er það ætíð vant að vera hið fyrsta, sem hann skipar fyrir: að búa til legstað sinn; já, mönnum segjast svo sögur, að hann láti hvervetna, og það jafnvel á ferðalögum sínum bera líkkistu á undan sjer.

---

## Gústaf Vasa.

Í Orkestu sókn í Upplöndum er forn borg, er heitir Lindhólmi. Nú eru þar steinrústir einar, en til forna var þar veglegt höfðingjasetur. Höllin sjálf var rambyggð úr blágrýti og tígulsteinum, og stóð milli tveggja

stöðuvatna á hærsta leitinu í landareigninni, svo að sjá mátti þaðan víðsvegar yfir hálsa, skóga og vötn. Hjer fæddist Gústaf Vasa 12. dag maímánaðar 1490. Faðir hans hjet Eiríkur Jóhannsson Vasa hertogi frá Rauðbúahólmi, og móðir hans Sesselja frá Ekum, hálfsystir Kristínar Gullinstjörnu. Kvendi þau, sem voru við, þegar hann fæddist, sögðu að hann hefði haft svo nefndan sigurhjálm á höfðinu og rauðan kross á bringunni, og var þetta álitið að boða sigursæld þá og frægð, er hann öðlaðist seinna meir.

Þá hann var 6 vetra, komu foreldrar hans honum í fóstur hjá Steini Stúra hinum eldri, og þessi aldraði og alvarlegi höfðingi spillti honum heldur ekki með of miklu eptirlæti eða umburðarlyndi. Viðurværi hans var einfalt og hóflegt, eins og allur annar aðbúnaður. Hann hafði mesta yndi af því, að þjóta með laxbræðrum sínum um skógana og klettaskútana, og þetta gjörði hann efldan og

heilsugóðan, líflegan og ótrauðan, og höfðu allir ást á káta og fjöruga drengnum.

Árið 1499 sótti Hans konungur einu sinni Stein gamla heim, og sá þar þenna vænlega dreng hlaupa um í höllinni; kallaði hann þá á hann til sín, virti fyrir sjer hina fríðu og glaðværu ásýnd hans, klappaði síðan í kollinn á honum, og mælti: „Sannarlega mun einhvern tíma verða maður úr þjer, ef þú lifir!“ En er hann fór að hugsa betur um kosti og ættgöfgi drengsins, varð hann ekki ugglaus um, að hann mundi einhvern tíma, þegar fram liðu stundir, verða steinn í götu fyrir varanlegu sambandi Svíþjóðar og Danmerkur. Beiddist hann því af herra Steini, að mega hafa þetta efnilega barn með sjer til Danmerkur, og kvað hann skyldi verða alinn þar upp við hirðina. Má og vera, að hann hafi ætlað sjer að láta hann þannig, smátt og smátt, verða ókunnugri högum ættjarðar sinnar. En hinn hyggni Steinn sá allt út úr konunginum, og svaraði: „Gústaf er enn þá of ungur til þess að fara burt úr föðurgarði“.

Skömmu seinna kom hann drengnum, svo lítið bar á, heim til föðurs síns aptur. En þegar Hans konungur heyrði síðar sagt af hinum ágætu gáfum unglingsins, er þá var í uppvexti, ljet hann sjer um munn fara: „að hinn ungi úlfur væri smoginn sjer úr greipum“.

Gústaf naut uppfræðingar bæði í heimaskóla og í Uppsölum, og var ekkert námi hans of vaxið. Síðan var hann um hríð hjá Svanta Stúra, en dvaldi þó lengst af við háskólann í Uppsölum, til þess að nema þar til fulls öll vísindi og íþróttir, og áunnu framfarir hans honum bæði hylli kennaranna og virðingu skólabræðra sinna. Þar eð hann var glaðvær og fjörugur, tókst hann opt ferðir á hendur út um landið ásamt æskuvinum sínum, þegar hann hafði tóm til, og hafði hina mestu skemmtun af því. Þannig þekktu, elskuðu og virtu allir hinn unga Gústaf Vasa. Þegar fram liðu stundir, hafði hann og opt mikla aðstoð og liðveizlu af sínum fornu skólabræðrum.

Þegar Gústaf var tvítugur, fór hann frá

Uppsölum og til Steins Stúra hins yngri, og þar ávann hann sjer einnig almennings hylli. Enkum aðhylltist hann hinn aldraða Heming Gað, og batzt skjótt föst vinátta með þeim. Fræddi Hemingur Gústaf ítarlega um allt hið nánara og hulda samband Svíþjóðar og Danmerkur, og fjekk hann við það brennandi hatur á Danmörku og sambandinu, ást til fósturjarðar sinnar, og hugrekki og löngun til að leggja allt í sölurnar, svo hún mætti verða óháð öðrum.

Honum gafst og snemma færi á, að láta þessar tilfinningar í ljósi. Árið 1518 lagði Kristján Danakonungur hinn annar með liði og herskipum að Stokkhólmi, settist um borgina, og gjörði áhlaup á hana optar enn einu sinni; en hann var í hvert skipti rekinn tvöfaldur aptur, og hjelt því liði sínu til Suðurmannalands. Ríkisforstjórinn Steinn Stúri veitti honum eptirför með her manna, og var Gústaf Eiríksson Vasa þá fyrir aðalfylkingunni, og rjeðist að konungi 23. dag júlímánaðar við Brenkirkju; Danir biðu

ósigur, og urðu að hverfa aptur til herbúða sinna, og átti Gústaf mestan þátt í því, hvað bardaganum lauk hamingjusamlega fyrir Svía.

Eptir bardagann við Bernkirkju fór Kristján annar aptur til skipa sinna, og beiddist þar viðtals af Steini Stúra, er sendi honum sex af hinum göfugustu mönnum sínum í gislingu; meðal þeirra var Gústaf Vasa, sem ásamt hinum var fluttur til Danmerkur, og þar komið til frænda síns, Eiríks Banners á Kalley, er átti að hafa vörzlur á honum. Þar dvaldi Gústaf eitt ár, þangað til hann strauk þaðan í dularklæðum til Lýbekks sumarið 1519, og varð hann að vera þar 8. mánuði, áður honum tókst að líta aptur sitt mæta föðurland, sem þá var að mestu leyti í höndum Dana. Hann gaf sig fyrst í ljós í Kalmar, en varð skjótt að hafa sig þaðan, og halda lengra inn í landið; hvatti hann opt bændurna þar til að hrista af sjer oki Dana, en honum var almennt svarað á þessa leið: „Oss mun hvorki skarta síld nje salt, á meðan vjer hlýðum Kristjáni konungi.“

þannig ráfaði Gústaf Vasa huldu höfði og ofsóttur, um skóga og heiðar, án þess að finna liðveizlu þá, er hann hafði gjört sjer vonir um. Í nóvembermánuði barst honum sú skelfilega fregn, að faðir hans og mágur, og margir frændur hans, og fjöldi göfugra Svía hefðu verið hálshöggnir, 8. dag sama mánaðar, á stóra torginu í Stokkhólmi, og að ærið fje var lagt til höfuðs honum sjálfum. Allir yfirgáfu hann nú, svo hann flúði í dularklæðum upp í Dalina, og gaf sig í vinnumennsku hjá bændum; en þó lá opt við sjálft, að hann yrði ofurseldur Dönum. þannig komu hermenn þeir, sem voru gjörðir út til að leita hans, einu sinni flatt upp á hann, þegar hann var hjá Dalabóndanum Sveini Álfssyni í þorpinu Isölum; en þá hjálpaði honum bæði húskarla búningur hans og snarræði hjónanna. Hermennirnir óðu inn til bóndans, og spurðu að Gústafi. Bóndi brást mjög svo ókunnuglega við, og kvaðst aldrei hafa heyrt Gústafs getið, og í sama bili kom kona bóndans hamslaus inn, þreif ofnsköruna, og lagði hana í herðar Gú-

stafi, og sagði um leið: „Snáfaðu út letinginn þinn! Nei, lítið á endemið! Stendur hann ekki þarna eins og merkikerti, og hlustar á hvað aðrir tala, í staðinn fyrir að vinna!“ — „Það er af og frá að Gústaf sje hjerna,“ hugsuðu dátarnir með sjer, og fóru leiðar sinnar. Síðan ætlaði Sveinn að flytja Gústaf burt í heybagga; en dáti nokkur, sem hafði fengið einhverja grunsemd, stakk spjóti sínu inn í bagg-ann, og særði Gústaf til blóðs; en hann ljet sjer ekkert meint við verða, og bærði sig ekki hót; laumaðist þá Sveinn til, og spretti með hníf í einn fótinn á hesti sínum, svo að blóðið sýndist koma þaðan, og þannig komst Gústaf þá undan í annað þorp, er Móra heitir.

Um þessar mundir flúðu sífelt fleiri aðalsmenn til Dalanna, og sögðu þar frá hinum blóðugu aðförum Kristjáns hins annars, og það líka, að hann ætlaði að ferðast um allt ríkið, og mundi þá mega rekja gálga og steglur í hverju spori hans. Þá fór loks að koma kur í bændur, og er Gústaf hafði ráfað einförum upp á fjöll, sóttu skíðamenn hann apt-

ur til Móra; var þar þá saman kominn fjöldi hinna merkustu bænda úr öllum nálægum sóknum, er kusu hann til „höfuðsmanns í Svíaríki,“ og sóru honum hollustu. Gjörðust 16 vaskir Dalabúar höfuðverðir hans, og 200 ungra manna sveinar; óx nú liðsafli hans óðum, svo að hann, í febrúarmán. 1521, gat tekizt leiðangur á hendur til Falúnar, með rúmum 1000 mönnum. Þar náði hann öllum ríkissjóðnum og verzlunarvarningi Dana, er hann skipti milli manna sinna. Úr silkivoðum þeim, er hann fann þar, ljet hann búa til hin fyrstu merki sín. Jókst nú lið hans smámsaman allt að 3000 manns. Allt Gestrekaland, ásamt höfuðborginni Geflu, gekk nú á vald hans, og fjöldi ofsóttra aðalsmanna leitaði til herbúða Gústafs bæði frá Stokkhólmi og úr öðrum hjeröðum ríkisins.

Eptir að Dalakörlunum hafði veitt betur móti Dönum í orustunni við Suðurbæjarheiði, safnaði Gústaf að sjer öllum mönnum sínum við Heðemóra, og leitaðist þar við að æfa þá í vopnaburði, og venja þá við stríðsaga. Dala-

karlarnir höfðu þá engin skotvopn, heldur að eins axir, boga og örfar, spjót og slëngur. Gústaf kenndi þeim að smíða örfarnar stinnari í oddinn, og bjó þá út með lengri og öflugri spjótum. Sömuleiðis ljet hann í Heðemóra slá neyðarpeninga.

Í aprílmánuði fór hann til Vesturmannalands, og gekk alþýðan þar óðara á hönd honum. En hinn 20. sama mánaðar, er bændur hans voru ölvaðir, rjeðist hinn danski fógeti Andrjes Pjetursson á þá-að óvörum, og britjaði niður flest alla á svipstundu.

En þrátt fyrir þetta áræddi Gústaf þó að boða Kristjáni konungi stríð á hendur. Streymdu nú landsmenn að honum úr öllum áttum, og það svo, að hann gat skipt liði sínu, og sezt um margar borgir í senn, í ýmsum hjeröðum. Hinn 18. dag máímánaðar tók hann Uppsali með herskildi; en Danir unnu þó Uppsali aptur skömmu seinna, og eltu þeir þá Gústaf á flótta, og var hann hætt kominn. Þó snjerist hann skjótt á móti aptur, er honum bættust vopnfærir menn úr nálægum hjeröð-

um, og veitti hann Dönum þeim eptirför, er hjeldu aptur til Stokkhólms.

Þannig hófst umsátrið um Stokkhólm, sumarið 1521, og varð að kalla ekkert hlje á því í full tvö ár, þar eð það var mjög svo torsótt bændaliði, sem vantaði bæði skotvopn og góða fyrirliða, að ná ramgyrtum stað, er þar að auki hafði greiðan veg til sjávar. Gústaf varð því að taka hjer á öllu þolgæði sínu, kænsku og fylgi; hann varð sjálfur að segja fyrir og stjórna öllu, og þó ljet hann aldrei hugfallast.

Að lokunum stefndi Gústaf til þings í Vaðstena; mættu þar 70 sænskir aðalsmenn og mikill fjöldi allra stjetta. Buðu þá bændur Gústafi kongdóm í Svíaríki, en hann dróst undan því, og sór þá þingheimurinn honum tryggð og hollustu sem landstjóra. Þetta gjörðist 24. dag ágústmánaðar.

Nú var aptur tekið til óspilltra málanna við Dani, og hver víggyrta borgin á fætur annari fjell í hendur Gústafi, svo að hann, við

árslokin 1521, átti að eins eptir að vinna, Stokkhólm, Kalmar og Obó.

Á ríkisþinginu í Strengjanesi, 7. dag júnímánaðar 1523, kusu Svíar „hinn ósigranda höfðingja, Gústaf Eiríksson, til síns einasta, rjettborna og milda konungs og herra.“ — Þá ríkisþinginu var lokið, snjerist Gústaf móti Stokkhólmi. Danska setuliðið í borginni, er hafði varizt svo lengi og hraustlega, gat nú ekki lengur borið af sjer umsátrið, og lauk upp borgarhliðunum 21. dag júnímánaðar. Sendi þá Gústaf Pjetur Hörð á undan sjer, til þess að setiast að í víginu, og búa allt undir innreið konungsins í höfuðborg sína.

Innreið þessi skeði um jónsmessukvöldið 1523. Konungur reið stórum skrautbúnum hesti mitt ámilli riddara og ungra hirðmanna í ljómandi herklæðum, og fylgdi óteljandi manngrúi á eptir. Við borgarhliðið komu hinir elztu og göfugustu borgarmenn á móti honum, og seldu honum í hendur liklana að Stokkhólmi. Borgarlíðurinn, er svo lengi hafði verið sræld-

ur inni og kúgaður, streymdi nú glaður til móts við hinn aðkomandi frelsara sinn og aðra landsmenn, sem hjeldu inn í borgina með engu minni gleði, og margur þeirra fagnaði með gleði tárum feðra heimkynnum og leiksvæðum yngri áranna. Vinir hittu vini sína, ættingjar sáu loks frændur sína, sem þeir höfðu svo lengi þráð, og foreldrar börn sín. Hin almenna gleði lýsti sjer hvervetna, en þó var fögnuðurinn mestur, þar sem hinn ungi konungur var fyrir. Hvert sem hann fór, flykktist mannfjöldinn frá sjer numinn utan að honum, og heiðraði með yfirgnæfandi fagnaðarópi hinum nýkjörna konungi, frelsaranum meðal sinnar frelsuðu þjóðar, Svía konungi í höfuðborg Svíaríkis.

Gústaf hjelt beint til höfuðkyrkjunnar, gjekk inn að háaltarinu, og kraup þar með auðmýkt ag þakkargjörð að fótskör hins almáttuga konungs konunganna, er hafði auðsýnt honum náð sína, og veitt honum þrek til að frelsa fósturjörð sína. Hjer á þessum stað — þar hræsnislaus guðsótti bjó í hinu saklausa

hjarta konungsins, — hjer auðmýkti hann sig, jafnvel þó hann hins vegar væri ofurhugi, og bað með innilegri guðrækni hinn almáttuga um náð og krapta til að geta verðuglega leyst þann starfa af hendi, sem hann hafði tekizt á herðar! — Velmegun og veldi Svíaríkis, hin djúpa lotning og heita þakklæti seinni aldanna votta það, að bænir þessa ágæta konungs rættust.

Hálfum mánuði síðar gafst Kalmar upp, og áður enn árið var úti, var Gústaf búinn að ná undir sig öllu Finnlandi.

Svíaríki var nú aptur orðið frjálst og óháð ríki; en þó var sú byrðin ærið þung, er hann hafði færst í fang, sem konungur yfir ríki þessu. Hann átti að koma því í álnir og vegsemd, hann átti að koma fótunum undir veldi það, er ekki var lengur til í Svíaríki, nefnilega: undir ríkisveldið, og hann hlaut að byrja stjórn sína með því að leggja hinar þyngstu álögur á þegna sína. Þegar hann hjelt innreið sína í Stokkhólm, lá allur helmingur húsanna í eyði, og tæpur fjórði hluti var eptir af borgarmönnum. Og allt, sem bar fyrir augu

hans, var lifandi eptirmynd þess, hvernig gjörvallt ríkið var á sig komið; aldrei hefur heldur með meiri sanni verið sagt um nokkurn konung, að það hafi verið torveldara að halda, enn að ná því hásæti, sem Gústaf var hafinn upp í.

Gústaf Vasa fylgði fast hinni lúthersku trú, sem hann hafði lært að þekkja, þá hann dvaldi í Lýbekk, og sem hann seinna varð gagnkunnugri af viðræðum við lærðu bræðurna, Olaus og Laurentius Petri. Gústaf leyfði, að hin nýja trú væri boðuð í Svíaríki, og sá um leið fyrir því, að Nýja Testamentinu væri snúið á sænsku. Máttu þá munkar og nunnur gipta sig; en sjálfsagt var það, að Gústaf gleymdi ekki að taka undir sig klaustrin og jarðirnar, er þeim fylgdu, og kom nú þetta af stað upphlaupi í Dölunum árið 1523, sem klerkarnir rjeru að flestum árum, svo að hinn nýkjörni konungur átti þar í vök að verjast.

Til þess nú að bæla niður þessar langvinnu óspektir, stefndi Gústaf til þjóðfundar í Vesturási, hinn 16. Sag júnímánaðar 1527.

Mættu þar biskupar, kanúkar, ríkisráðsmenn, aðalsmenn, borgarar, námumenn og bændur, alls 303 þjóðfundarmenn. Biskuparnir mótmæltu því þegar, að kirkjunnar rjettindi væru skert í nokkru. En að lokunum urðu þeir að láta undan, þar eð bæði borgararnir og bændur voru á máli Gústafs, sem nú kom öllu því fram, er hann vildi. Í 20 ár átti Gústaf Vasa að berjast við sífeld upphlaup, og olli þeim: ýmist skelfileg óáran í 2 ár, og drepsótt, er kom á eptir, og sem klerkarnir stóðu fast á, að væri himinsins reiði fyrir hið óguðlega athæfi konungsins, — ýmist hinir óvægu katólsku klerkar, sem að eins á huldu lutu i lægra haldi fyrir honum, — og ýmist aðallinn, sem þóttist hafa farið varhluta af því, sem rænt var frá kirkjunum. Þó veitti Gústafi ávallt betur í öllum þessum baráttum.

Árið 1543 átti Gústaf fyrst að fagna friði við þegna sína og útlendar þjóðir, og fór nú veldi og álit Svíaríkis óðum vaxandi. Hann kom skattgjaldinu og fjárhag ríkisins í lag, og lagði hina mestu alúð á, að landið yrði upp

yrkt, námurnar stundaðar og verzlunin aukin. Til þess að bæta handyðnir kallaði hann að útlenda meistara. Sömuleiðis leitaðist hann við að efla íþróttir og vísindi, ljet grafa síki, kom á póstferðum, og ljet byggja margar hallir, vígi og staði, eins og hann var hinn fyrsti konungur, er kom upp herskipastóli í Svíaríki.

Á þinginu í Eyrarbrú, 4. dag janúarímánaðar 1540, var því þegar lýst yfir, að Svíaríki skyldi ganga í erfðir í Vasa ættinni og Eiríkur, elzti sonur Gústafs, um leið hylltur með mikilli viðhöfn, sem konungsefni.

---

Eptir að drottning hans Margrjet andaðist, tók þrótti og lunderni konungsins að hnigna, og fór þetta heldur enn ekki í vöxt, er hann varð að sæta raunum af börnum sínum, Eiríki og Sesselju. Bættist nú þar á ofan armæða sú og lasburðir, er ellin hefur í för með sjer. Hann leit yngri og eldri vini sína líða úr heiminum, hvern af öðrum, og stóð sjálfur einn eptir, viðlíka og gömul einmana eik innan um hið blómlega ungviði.

Áhyggjur og sífeld eljunarsemi voru, ef til vill, fyrir tímann búnar að gjöreyða kröptum hans. Stálminnið var nú farið að sljófgast. Menn urðu þess varir, að hann varð opt og tíðum að hugsa sig góðan tíma um, áður enn hann gat munað eptir einhverju mannsnafni, og að hann þrávallt breytti skipunum sínum, er hafði miög sjaldan borið við að undan förnu. Hann varð og æ þunglyndari og ömrulegri; lýsti því yfir, að hann væri óánægður með embættismenn sína, og kvaðst vera ólánsmaður í alla staði.

Þar eð engum var unnt að gjöra honum neitt til hæfis, varð skriptafaðir hans að gjöra honum ráðningu fyrir það. Leiddi hann því konungi fyrir sjónir, hversu litla ástæðu hann hefði til að gremjast, og hversu Guð hefði blessað hann furðanlega á margan hátt, svo að honum bæri miklu fremur að vera ánægðum, og þakka Guði af hjarta fyrir slíka náð, enn að syndga mót Drottni, og gjöra meðbræður sína leiða á sjer, með óviðurkvæmilegum umkvörtunum.

Gústaf tók með auðmýkt þessari áminningu, gaf mönnum upp marga tolla, sem áður hafði verið gengið ríkt eptir, og hætti að barma sjer; en hið forna glaðsinnið var með öllu horfið. Hann hafði nú ekki lengur hið fyrra yndi af hljóðfæraslætti, en sendi sonum sínum hljóðfæri sín með öllum áhöldum. Allt virtist honum boða feigð sína. Í ágústmánuði 1539 sást halastjarna, og um sama leyti vildu til ýmsir eldsvoðar og önnur slis. „Það kallar að mjer feigð,“ sagði hann þá: „Guð gefi mjer að eins tíma til að búa mig undir!“

Á nýársdag 1560 sagði hann; „þetta verður seinasta árið, sem jeg lifi. Jeg þarf ekki að ráðgast við þá, sem spá af stjörnunum, því jeg finn í sjálfum mjer himintungl þau, sem spá, hverju fram vindur fyrir mjer!“

Til þess að fá erfðaskrá sína staðfasta, stefndi Gústaf saman öllum stjettum til fundar í Stokkhólmi, í júnímánuði. Hinn 25. voru menn kallaðir inn í þingsalinn. Þá allir voru saman komnir, gekk konungur inn með sonum sínum. Þrír hinir elztu stóðu við vinstri

hlið honum; en hinn yngsti, sem var 10 vetra, og hjet Karl, stóð að fótum föður síns. Tók þá konungur til máls, og talaði þessum orðum:

„Jeg tilbið Guðs almættti, sem hefur hafið mig og undir eins hina gömlu konungsætt Svíþjóðar upp á hinn forna veldisstól Svíaríkis. Þeim á meðal yðar, sem eru komnir á efri aldurinn, mun eflaust ekki vera það ókunnugt, hversu vort ástkjæra föðurland hefur verið hart leikið og þjakað um margar aldir af erlendum landsdrottnum og konungum, enkum af hinum harðráða Kristjáni konungi, — og hvernig Guð hefur virzt að láta mjer takast, að leysa Svíríki úr þessari ánauð. Því sæmir oss, æðri sem lægri, húsbændum og hjúum, eldri sem yngri, að gleyma aldrei þessari guðdómlegu aðstoð. Því hvernig mundi jeg annars hafa verið fær um, að reka af mjer eins voldugan höfðingja, sem ekki að eins rjeði yfir 3 konungsríkjum, heldur þar á ofan var í ætt og vinfengi við keisarann og þá, sem mest bein höfðu í hendi? Það var fjærrri því, að jeg hyggði til slíkrar sæmdar, þegar

jeg varð að leyna mjer í skógum og öræfum, til þess að komast undan banasverði blóðgírugra fjandmanna minna! En Guð var í verki með, og gjörði mig að furðanlegu verkfæri sínu, svo að almætti hans skyldi augljóst verða, og þori jeg því að líkja mjer við Davíð, sem Guð gjörði að konungi úr auðvirðilegum hirðara!“

Við þessi orð hrundu tárin niður eptir kinnunum á honum.

„Jeg kann yður þakkir, dyggvu þegnar! fyrir það, að þjer hafið viljað hefja mig til konunglegrar tignar, og gjöra mig að ættföður konunga yðvarra, og engu síður þakka jeg yður fyrir alla þá trygð og liðveizlu, sem þjer hafið látið mjer í tje í stjórn minni.

„Að hinn miskunsami Guð hefur á þessu tímabili látið kunngjöra sitt hreina og ómengaða orð, og að hann auk þess hefur svo ríkuglega blessað ríkið með alls konar gæðum þessa heims, eins og nú er í augum uppi, — fyrir þetta skulum vjer allir, góðir menn og

þegnar! með innilegasta þakklæti og auðmýkt gefa Guði dýrðina!

„Mjer er það fullkunnugt, að margir ætla mig að hafa verið harðráðan konung. En sá tími mun koma, að Svíar mundu fegnir vilja heimta mig úr helju, ef þeim væri það unnt. Þó læt jeg mjer enga lægingu þykja, að játa, að jeg hefi verið breyskur eins og aðrir menn, því enginn er algjörr og vítalaus. Þessvegna bið jeg yður fyrir Krists sakir, eins og holla þegna, að virða á betri veg, og leiða hjá yður það, sem yður kann að hafa fundizt ábóta vant í stjórn minni. Það hefur ávallt verið augnamið mitt, að efla hag ríkisins og þjóðarinnar. Ennishrukkur mínar og hærur bera ljósastan vottinn um háska þann, þrautir og raunir, er jeg hef sætt þessi 40 árin, sem jeg hef setið að völdum.

Jeg veit það fyllilega, að Svíar eru fljótráðir en seinhugulir. Líka sje jeg það full vel fyrir, að seinna muni rísa upp margir villi-andar og falskennendur. Þess vegna bið jeg og áminni yður: haldið fast við Guðs

orð, og hafnið öllu, sem ekki er því samkvæmt! Verið hlýðnir yfirvaldinu og eindrægnir! Minn tími er senn hvað líður úti. Til þess að geta vitað þetta, þarf jeg hvorki að leita stjörnuvitringa nje annara spásagna.

„Jeg finn það á mjer,“ — mælti Gústaf að endingu, „að jeg muni bráðum fara hjeðan, til þess að standa reikning minnar ráðsmennsku, og leggja niður hina dýrðlegu, en hverfulu kórónu Svíaríkis, að fótskör hins allrahærsta konungs. Látið yðar einlægu fyrirbænir fylgja mjer, og þegar augu mín eru apturlukt, þá látið moldir mínar hvíla í friði!“

Síðan rjetti hann upp hendur sínar, og blessaði þjóð sína í hinnsta sinni. Hærur hans, hin toginleita, en þó tignarlega ásýnd, hinn viðfeldni málrómur, sem nú fyrir elli og viðkvæmnis sakir var nokkuð skjálfraddaður, og loksins tilhugsun sú, að þeir nú fyrir fullt og allt yrðu að sjá á bak föður, kennara og velgjörðamanni sínum, — allt þetta hrærði djúpt alla þá, sem voru við staddir. Tárin hrundu úr augum þeirra, og andvörpin og harmur-

inn gnæfði því nær ósjálfrátt yfir hljóminn af hinni ástfólgnu rödd.

Gústaf stóð nú upp, og gekk út úr höllinni, og studdist við báða elztu syni sína, um leið og hann smámsann leit við, kinkaði höfðinu vingjarnlega, og með tárin í augunum sendi mönnum hina síðustu kveðju sína. Fundarmenn fóru strax á eptir hinum ástfólgna konungi, og þeir, sem ekki gátu það, mændu eptir hærum hans grátandi, og sendu honum blessunaróskir sínar.

Á þingi þessu lögðu synir og þegnar Gústafs konungs samþykki sitt á, og unnu eiða að erfðarskrá hans. Ljet Gústaf síðan stjórnina af hendi við Eirík son sinn. En er Eiríkur þrábeiddi föður sinn að meiga ferðast til Englands, til þess að hann gæti sjálfur hafið bónorð sitt til Elísabetar drottningar, — var það afráðið, að Jóhann hertogi skyldi ráða ríki, ef Gústaf andaðist á meðan Eiríkur væri burtu.

Hinn 14. dag ágústmánaðar kvaddi Eiríkur föður sinn. Var þá öldungurinn ekki

orðinn fær um að fylgja honum frá höllinni; en er skothríðin boðaði burtferð Eiríks, datt svo mikill kvíði yfir föður hans, að hann varð veikur. Jókst nú tregi hans og sótt hinn næsta dag, svo að það varð að bera hann á áliðnum degi í rekkju, sem varð banasæng hans.

Hinn 25. sama mánaðar ljet hann kalla fyrir sig syni sína: Jóhann, Karl og Magnús. Hann rjeði þeim til samlyndis, og mælti: „Ef þjer á annað borð viljið varðveita kongdóminn í ætt yðar, þá verðið þjer að virða þann, og hlýðnast þeim, sem ber kórónuna, og ávallt efla hvers annars heill!“

Læknir konungsins, Le Salu, var í fyrstu fjærverandi. Skriptafaðir hans, meistari Jóhannes, var kallaður, og hóf strax langa áminningarræðu um þolinmæði. Konungur tók fram í, og bað, í stað þess, um meinabót við kveisu og höfuðþyngslum. Meistari Jóhannes tók á öllu því, sem hann átti til; en það tjáði ekki. Nú kom Le Salu, en hann gat heldur ekkert að gjört. Gústaf hafði sjálfur í skympingum allar tilraunir þeirra, svo að

þeir, sem við voru, gátu ekki að sjer gjört að fara ekki að brosa. Á meðan hann lá, var hann hins vegar mjög mislyndur og opt harla óþolinmóður. Einu sinni þegar Magnús hertogi, — sem var góðlundaður, en framtakslítill — kom inn til hans, sagði hann: „Mjer þykir vænt um þig, þú hefur aldrei reitt mig til reiði!“

Einhvern dag kvartaði hann yfir því, að jafnvel börnin sín forðuðust sig. Þá mælti drottningin: „Hafið ekki þessi orð maður minn sæll! Þau vildu fegin vera hjá yður, en þjer verðið srax óeyrinn, og talið svo hart til þeirra, að þeim vöknar um augu, og verða hrædd um, að þau geti ekki verið föður sínum til hæfis!“

Áður enn honum fór að þyngja, var hann þegar búinn að segja fyrir, hvernig meistari Jóhannes ætti að búa sig undir dauðann. 23. dag septembermánaðar tók hann þúnga sótt, og ljet gjöra boð eptir prestinum. Þegar Jóhannes var lengi og alvarlega búinn að leiða konungi fyrir sjónir alla mannlega bresti hans,

tók konungur loks fram í, og sagði: „Þjer eruð nú nógu lengi búnir að prjedika lögmálið, og það er mál komið að leitazt við að hugga hina hrelldu samvizku mína með evangelió!“

Síðan meðtók hann heilaga kvöldmáltíð, gaf lausa nokkra bandingja, og bað þá, sem við voru, að fyrirgefa sjer, ef hann hefði gjört nokkuð á hluta þeirra. Skömmu seinna kom hertogi Jóhann inn til hans, og sagðist hafa játað trú sína. Faðir hans bað hann að halda fast við hana; en af því hann var ekki fær um að mæla neitt, tók hann penna, og ritaði þessi orð: „Að tala einu sinni, og standa við það, er betra, enn að tala hundrað sinnum!“ Þó gat hann ekki til fulls ritað þetta alkunna orðtæki sitt. Jóhann hertogi geymdi að vísu pappírinn, en ekki heilræðið.

Martinus prestur að Uppsölum, Steinn Ljónhöfuð, ríkisráð, skriptafaðirinn Jóhannes og erkibiskup Laurentius Petri, skiptust til að vera hjá konungi, en drottningin fór aldrei frá honum. Hinn 27. september sagði læknirinn henni, að öll von væri úti um, að konungur-

inn mundi lifa. Sama dag lagðist hún líka í rúmið; en hún var ófáanleg til að láta flytja rekkju sína út úr herbergi konungsins, og hafði aldrei augun af honum.

Næsta dag bærði hann sig ekkert að kalla mátti, og vildi ekki neyta neins, en benti að eins skriftaföður sínum að tala til sín. Alla nóttina, þangað til daginn eptir, lá hann í hálfgildings dauðadvala. Jóhannes laut smámsaman niður að honum, og las fyrir honum í hálfum hljóðum nokkur huggunaryrði úr ritningunni. Að loknnum, þá lýsa tók af degi, sagði Steinn Eiríksson Ljónhöfuð: „það er ekki til neins allt þetta, sem þjer ræðið; konungurinn heyrir ekki lengur neitt af því!“

Meistari Jókannes var þó fastur á því, að hann skildi sig enn þá, beygði sig niður að honum, og spurði hann nokkuð hærra: „Herra minn og konungur! trúið þjer á Jesú Krist; ef þjer heyrið orð mín, þá gefið oss einhvern vott þess!“

Konungur svaraði nú hátt og snjallt, svo alla furðaði: „Já!“ — og eptir fáein andvörp

var hann örendur. Þetta skeði 29. dag septembermánaðar 1560, einnni stundu fyrir dagmál.

Hin veglega útför hans var gjörð í desembermánuði. Báðar drottningar hans, sem áður voru andaðar, og höfðu verið líksettar í höfuðkirkju borgarinnar, voru fluttar þaðan til Uppsala, ásamt líki konungsins. Hinn 17. desember fór líkfylgdin frá Stokkhólmi. Flokkur hermanna gekk á undan, en stúdentar og klerkar á eptir, er sungu andlega sálma; þá aðalsmenn þeir, er kjörnir voru til að bera öll fylkismerkin; þá Birgir Greip með ríkismerkið, og síðan Gabríel Uxastjarna með hjálm konungsins, Þór Bjálki með brynjuna, Svante Stúri með sverðið, og Gústaf Rós með úrvala hest hans; þá kom líkið, er hinir göfugustu klerkar báru; þá Eiríkur konungur og bræður hans; þá ríkisráðið, ekkjudrottningin og hirðkonurnar, og aptast aðalsmenn og borgarar, o. s. frv.

Líkfylgdin fór sjer hægt, en á hverri nóttu var líkið sett inn í einhverja kirkju, og vöktu 3 bisbupar og 30 klerkar yfir kistunni. Hinn

21. desember komst líkfylgdin til Uppsala, og fór óteljandi manngrúi eptir til dómkirkjunnar. Þar voru haldnar 2 ræður og kistan síðan borin af ríkisráðinu niður í hinn konunglega legstað hvar erkibiskupinn kastaði moldarrekunum á hana. Þegar þessari helgu athöfn var lokið, laust Svante Stúri sverðinu þrisvar í grafar gólfið, og kallaði upp um leið: „Nú er Gústaf konungur andaður!“ — Síðan seldi hann sverðið í hendur Eiríki konungi, og hljómuðu þá básúnur og lúðrar, svo drundi undir hið innra í kirkjunni, en fallbissur þrumuðu hið ytra. Eptir þetta fór líkfylgdin úr kirkjunni og skildist að.

Dómkirkjan í Uppsölum, sem geymir moldir Gústafs, er sú stærsta og veglegasta í öllu ríkinu. Legstaður hans er efst í kórnum, fyrir innan háaltarið. Jóhann ljet setja minnisvarða yfir gröfina, og sjest á honum mynd konungsins í fullu líki mitt á milli myndanna af báðum drottningum hans. Minningarmark þetta hefur orðið fyrir skemmdum í

bruna; en Svíaríki mun um aldur og æfi minnast Gústafs Vasa.

---

Gústaf konungur var vel vaxinn, og höfðinglegur, og gildar 3 álnir á hæð. Hann var fastholda og þrekinn og missmíðalaus, handleggja digur, smáhenntur og fótlítill. Hann hafði gulbjart niðurkembt hár, er var stýft um þvert á móts við augabrýrnar; ennið var mátulega hátt, augun blá og hvatskeytleg, nefið beint og ekki langt. Á elliárunum hafði hann enn rjóðar varir og kinnar. Skegg hans var á yngri árunum dökkleitt, og liðaðist í tvo lokka, sem voru hjer um bil þverhönd á lengd. Þegar hann tók að eldast, ljet hann það vaxa, eins og það vildi, svo að það að lokunum náði honum í beltis stað, og varð ísgrátt eins og hár hans. Þar eð hann var að öllu vel limaður, fór honum allur búningur vel. Honum heppnaðist allt, er henn lagði á gjörfa hönd, bæði fiski- og dýraveiðar, akuryrkja, fjárrækt, námugröptur og jafnvel peningatafl, þá sjaldan honum varð komið til þess.

Ei var Gústaf konungur síður úr garði gjörður að frábæru sálaratgerfi. Hann hafði aðdáanlegt minni. Ef hann hafði sjeð manninn einu sinni, gat hann þekkt hann aptur, eptir 10 eða jafnvel 20 ár. Þar sem hann hafði farið um einu sinni, var hann ótvílugur að rata úr því, og mundi jafnvel nöfnin á þorpunum og sjálfum bændunum, þar sem hann hafði ferðazt einu sinni um í æskunni. En eins og hann var framúrskarandi minnugur, eins var hann líka staklega vitur. Þegar hann sá einhverja litmynd, hús eða myndasmíð, gat hann þegar í stað sagt ítarlega frá kostum og löstum þess, þó hann sjálfur hefði aldrei fræðst um þá hluti. Þegar margir gestir voru í höllinni, ræddi hann við hvern mann, og um þá hluti, sem hver hafði bezt vit á. Sjálfur var hann heima í öllu. Enginn þarlendur var heldur eins kunnugur ástandi Svíaríkis nje þekkti eins vel og hann, hverju vanefnaði hvervetna. Því varð hann og bæði vegna þessa og hins, að hann vantaði í fyrstu duglega og hyggna embættismenn, að semja

sjálfur öll kunungleg brjef og tilskipanir, en það var fjærri því, að ríkið yrði hallloka í nokkru fyrir það.

Hann var svo gjætinn og varkár, að lítið vantar á, að menn kynnu að ætla hann tortryggin, og var hann vanur að segja við menn sína: „Gætið yðar vel! trúið öllum vel, en sjálfum yður bezt!“ það var líka orð og að sönnu, sem gammall rithöfundur segir um hann: að hann hafi vandlega hugað að, hvar hann stje fæti sínum, enda hafi hann þá líka í hverju spori getað staðið fastur og óbifanlegur, eins og bjarg!

Sömuleiðis bar hann af öðrum að staðfestu og þolgæði í því, sem hann einu sinni hafði sett sjer fyrir, og má sjá þess ljósastan vottinn af hinni hörðu og sigursælu baráttu, sem hann átti svo lengi í við páfann. Flestir aðrir mundu hafa gefizt upp eða, ef til vill, látið skríða til skarar með ofríki og orustum. En hann ljet tímann og athyglið vinna björninn. Og þó seigt gengi, miðaði honum þó sífelt að takmarkinu. Sjaldan sem aldrei breytti

hann ætlan sinni, og hafði það að máltæki: „að betra væri að mæla einu sinni, og láta við það sitja, enn að segja sama hlutinn hundrað sinnum!“

Gústaf var harður og alvörugefinn, og vandur að virðingu sinni. Enginn æðri nje lægri þorði að vera honum nærgöngull. Þegar svo bar undir, snjeri hann bændur, biskupa og konunga jafn óþirmilega út af laginu. Hann var rjettsýnn við embættismenn sína, en harður, svo að hann fældi margan frá sjer, þegar einhver gjörði sjer far um að ota fram vitsmunum sínum, til þess að hossa sjer hærra, og aðrir þá tóku að lofa kosti þess hins sama — svaraði hinn skarpvitri konungur: „Þrátt fyrir allt það, sem hann raupar af því, er hann hefur þegið af góðum Guði, þá er hann þó ekki fær um að gegna nokkurri áríðandi köllun!“

Gústaf fór spart með fje ríkisins, „því það“ sagði hann ávallt, „kostar þegna mína sveita og erfið!“ — Við hirð hans var og mikil sparsemi við höfð, og

sat hann opt á kongsjörðunum, og hafði tekjurnar sjer til viðurværis. Hann var mjög harður við börn sín. Á meðan konungssynirnir dvöldu í Uppsala skóla, voru þeim send svínslæri og viðbit frá búgörðum konungs, er þeir áttu að hafa sjer að mat kvöld og morgna. Drottningin saumaði sjálf skyrturnar utan á þá, og það voru álitnar stórgjafir, þegar faðirinn gaf einhverjum þeirra glófagran silfurdal.

Aðsjálni Gústafs kom honum þó einstaka sinnum til að beita nokkrum ójöfnuði, sem þó ekki þótti eins tiltakanlegt þá, og nú hefði verið. Þannig veitti hann stundum ekki brauðin, en ljet aðstoðarpresta þjóna þeim, og tók sjálfur prestsmötuna. Líka bannaði hann þegnum sínum að verzla nautum til útlanda, en keypti þau sjálfur litlu verði að bændum, og seldi síðan erlendum mönnum með töluverðum ábata. Þetta olli og uppreisn í einu hjeraði. Fleiri líkar sögur hafa farið af Gústafi; en menn leiddu það hjá sjer, sökum annara dyggða og mannkosta hans. Menn vissu það líka, að fje þessu var ekki varið til óþarfa. „Her-

bergið hans herra Eskilds“ og hinar gullhúss hvelfingarnar voru við lát hans fullar af ósviknum silfurstöngum. En þegar eitthvað þurfti að vera um dýrðir við ýms tækifæri, þá var hann síður enn ekki sinkur, og hafði þá allt eins ríkmannlegt og ljómandi og aðrir konungar. „Drottins umboðsmaður,“ sagði hann, „verður að hafa dýrðlegt í kríngum sig, svo alþýða geti borið lotningu fyrir honum, og ímindi sjer ekki, að hún standi jafnfætis hátigninni, sem lítið mundi stoða landið.“

Hann var guðhræddur og hræsnislaus, og sýndi það í hegðan sinni. Hann ljet halda bænir í heimahúsum kvöld og morgna, og vanrækti aldrei kirkjugöngu; hann var líka betur heima í biblíunni og kverinu sínu, enn flestir prestar í ríkinu. Þessvegna ritaði hinn fyrr nefndi Le Salu um hann til Parísarborgar: „Konungur minn er frábær maður, og á naumast jafningja sinn í andlegum eða veraldlegum efnum. Hann er svo heima í rit-

ingunni, að hann getur sagt prestum sínum til, og enginn er eins gagnkunnugur þörfum ríkisins og allri háttsemi, eins og hann."

Eins var hann hversdagslega hinn heiðvirðasti. Hann vildi gjarnan ræða við fríða kvennmenn; en hvorki átti hann hjákonur nje holukrakka, og eins varð honum ekki heldur borið á brýn hið allra minnsta svall, þótt hann hefði einn um fertugt, þá hann fyrst giptist. Í hjónaböndum sínum varðveitti hann órjúfanlega tryggð. Ölvínan, ofát, spilamennska og iðjuleysi þoldi hann ekki hjá öðrum, því síður að hann gjörði sig sekan í því sjálfur.

Þar eð hann var jafnan glaðvær og kátur á yngri árunum, hafði hann ætíð glæðværa og káta hirðsveit í kringum sig, þá hann hafði lokið störfum sínum; þó fór þá allt hóglega fram. Allir karlar og konur við hirðina áttu dag hvern, eptir miðjan dag, að mæta á vissum tíma í stóru höllinni, og ljeku þá leikarar konungs á hljóðfæri; „því," — sagði Gústaf, — „ungir menn eiga ekki að vera klunn-

alegir og búralegir, heldur kurteysir og viðfelldnir við hvern mann!“

Hann gekk opt út með hirðmönnum sínum sjer til skemmtunar, eða á dýra veiðar. Eeinu sinni í hverri viku voru hinir ungu aðalsmenn látuir æfa sig í skilmingum. þar að auki voru haldnar burtreiðir, og alls konar verðlaun lögð við, er fríðustu kvennmennirnir voru látir úthluta sigurvegurunum. Opt var söngur og hljóðfærasláttur hafður að skemmtan, er konungur hafði miklar mætur og vit á; hann smíðaði og sjálfur ýms hljóðfæri, og ljek á þau. þegar hann var einn sjer, leið ekkert kvöld svo, að hann skemmti sjer ekki stundarkorn við sönglyst.

Gústaf ferðaðist opt um landið, enkum þangað, sem markaðir og mannfundir voru. Átti hann þá tal við bændur, og fræddi þá ýmist um trúarbrögðin, eða spurði þá um heimilishagi þeirra, akuryrkju, fjárrækt o. a. þ. Bændur komust þá brátt að raun um, að tilsögn konungsins var bæði holl og á góðum rökum byggð; þeir höfðu og þeim mun meiri ánægju

af að hlusta á hann, sem hann var staklega vel máli farinn. Hann var rómgóður og skýrmæltur, en viðfelldinn og áhrifa mikill í tali; orðin voru tilgerðarlaus, en ljós og mergjuð. Þegar svo bar undir á ríkisþingunum, að hann ljet annann mæla fyrir sig, beiddust bændur ætíð, að hann talaði sjálfur; mun og heldur enginn Svíakonungur hafa verið, nje átt skilið að vera í eins miklum metum hjá þjóð sinni, og hann. Sjerhver bjargálna bóndi var og vanur að ánafna konungi, eptir sinn dag, einhvern grip úr silfri, svo að menn fundu dálítin sjóð af þess konar gripum í „herberginu hans herra Eskilds“ eptir að Gústaf var andaður. Á hinum seinni róstu árum talaði þjóðin ætíð með tilfinningu um Gústaf gamla og sældar tíðina, þegar hann var uppi.

Gústaf unni og mjög vísindum, og verndaði þau; en um fram allt ljet hann sjer vera annt um uppfræðingu alþýðunnar, og leitaðist á allar lundir við að gjöra bændur hyggna og menntaða. Börn hans höfðu og fengið svo mikla menntun, að þau voru talin með þeim,

sem bezt voru að sjer á þeim tímum. Sama er og að segja um barnabörn hans, og alla Vasa' ættina, allt að Kristínu drottningu; svo að þessi konungsætt hefur ekki að eins borið af öðrum að hreysti og allri viðhöfn, heldur og að þekkingu og menntun; lofstír hennar ljómaði því ekki einungis um allt Svíaríki, heldur og um gjörvalla Norðurálfuna.

Þegar Gústaf tók að eldast, og börn hans voru orðin stálpuð, bar það opt við eptir máltíð, að hann settist við ofninn, og ræddi við þau, og gaf þeim alls konar heilræði og hugvekjur. Mátti það heita sannur konungaskóli, bæði fyrir kennendur og lærisveina. „Verið stöðugir í trúnni og eindrægnir!“ sagði hann. „Ef þjer gjörið ekki hið fyrra, þá þóknist þjer ekki Guði; en ef þjer vanrækið hið síðara, þá verðið þjer öðrum mönnum að bráð! — Leitið ekki ófriðar, heldur friðar; en ef nágranni yðar ógnar yður, þá látið höggið ríða! Þegar frá unga aldri hef jeg sífellt átt í baráttum, og — hvað raunalegast er — optast nær við landa mína, svo að jeg hef orðið að gráta

í brynjunni. — Trúið mjer til þess, að þjer hljótið að varðveita friðinn um fram allt og við alla!“

Einu sinni, þá hann komst að því, að synir hans stærðu sig af því, að þeir voru af konungi komnir, og áttu kyn sitt að rekja til Óðins, sagði hann: „Sjerhver maður er öðrum líkur; þegar leikurinn er úti, þá erum vjer allir jafningjar!“

Í öðru sinni sagði hann: „Þjer eigið að yfirvega alla hluti vandlega, og vera svo skjótir í framkvæmdum. Haldið fast við það, sem þjer einu sinni hafið afráðið, og skjótið engu á frest til næsta morguns! Ráðagjörðir þær, sem ei ná framkvæmdum í tækan tíma, eru líkar regnlausum skýjum í miklum þurki! Látið alla hluti ske í tækan tíma, þá munuð þjer fá tíma til alls; ella verður hneixli, yfirsjón og skeytingarleysi í öllum hlutum!“

Sömuleiðis sagði hann einhvern dag: „Það er yfirboðurunum sjálfum að kenna, þegar þeir

undirgefnu vilja ekki hlýða; því lögunum á ætíð að fylgja möglunarlaust! Enginn gjöri það, sem hann vill, heldur það, sem hann á að gjöra! — Enginn embættismaður á að líðast, sem ekki er nægjusamur, nýtur og kostgæfinn! Morgunstund hefur gull í mund. Burt með iðjuleysingja; en heiður og umbun veitist þeim, er trúlega vinnur í víngarðinum! — Yðar menn skulu lifa í aga og umvöndun Drottins, og bera lotningu fyrir hærunum. Hver, sem öðruvísi breytir, á að útskúfast eins og smjaðrarinn! — Hafið jafnan atorkusama menn hjá yður, sem hafa óspillt siðferði; því maður ætlar yður það, sem menn vita um þá.“

Í tilliti til aðalsins, sagði hann einu sinni: „Dyggð, hyggindi og karlmennska eru hinn sanni aðall. — Svíar,“ bætti hann við, „eru drambsamir, þó opt þá sízt skyldi, og drottnunargjarnir. Þeir þurfa að eiga ótrauðan og drenglundaðan konung yfir sjer. Þeir þola engan ójöfnuð nje þrældóm, nje bleyðumenni. Þeim hæfir glaðvær, en harður kon-

ungur, sem aldrei sjer í gegnum fingur við neitt. Í orustum vilja þeir líta blóð, en gefa engan grið; þeir skammast sín jafnvel, þegar þeir hafa litlu á orkað. — Elskið og virðið þetta forna ríki, hvers innbúar hafa farið svo víða um heiminn, og barið á útlendingum bæði í austri, suðri og vestri. Hlynnið að, og haldið við spítölum, skólum og herbúnaði á sjó og landi. Elskið og virðið ekki að eins akuryrkju, fjallnámur og verzlun, heldur vísindi og íþróttir; því þá munu þegnar yðar breyta eins. Menn stæla eptir yður; elskið því sjálfir Guðs ómengaða orð, bænir og kirkjugöngur, og haldið þegnum yðar til þess; því undir því er mjög svo komin rósemi sálarinnar og friður í landinu. Hafið mikla ást á þegnum yðar; þá munu og allir rjettsýnir menn hafa miklar mætur á yður; og með aðstoð þeirra getið þjer þá haldið hinum í skefjum. Þannig hef jeg ávallt breytt. — Góðu börn! jeg hef með Guðs náð lagt alla alúð á að ala yður svo upp, að þjer yrðuð góðir menn.

Verðið það yður og öðrum til gagns; og hafið það jafnan hugfest, að minning konungsins deyr ekki út með hinum síðasta hljómi líkbjöllunnnar, heldur lifir í hjörtum þegnanna!“

Gústaf varð þrígiptur. Fyrst átti hann Katrínu af Saxhsen-Lauenborg. Hann tók sjer ekki innlenda konu, þar eð honum þótti aðallinn nógu ráðríkur, þó hann bætti ekki á það, með því að mægjast vid hann. Svo varð hann og við það mágur konungsefnisins í Danmörku (Kristjáns 3.), og vænti því friðar úr þeirri átt. Með henni átti hann til ógæfu fyrir Svíaríki, hinn ólánssama Eirík 14. Hjónaband þetta fór ekki vel, þar þau áttu ekki lunderni saman. Hún dó eptir 4. ára sambúð 1535.

Í annað sinn ljet hann ástina ráða. Átti hann þá rúmu ári síðar Margrjetu, dóttur Eiríks Abrahamssonar Ljónshöfuðs, sem var lendur maður á Ekubergi í Neríkum. Hún bar af öllum að líkama og sálar atgjörfi, og eins og hið fyrra hjónaband var ógæfusamt,

svo varð þetta hamingjusamt. Meðan hún lifði, var Gústaf sæll og ríkti í friði, og þau árin voru eina umbunin fyrir allar raunir hans og þjáningar. Með henni átti hann 10 börn, af hverjum 2 dóu kornung. Hún andaðist 1551. Gústaf hafði þá einn um sexutgt.

Nokkru seinna varð hann ástfanginn í dóttur mágs síns, Gústafs Ólafssonar Steinbocks á Þorpá, sem Katrín hjet. Hún var þá 18 vetra, aðdáanlega fríð sýnum, og hið mesta kvennval. Að sönnu var hjónaband milli svo nákominna álitið óleyfilegt, og móti Guðs lögmáli, og átti hann því í miklu stímabraki um það við biskupana, sem voru ósveigjanlegir; en þó varð því framgengt. Árið 1560 gaf hann þó út lögmál, er bannaði prestum að gefa saman hjón, sem mikill aldursmunur væri á. Þetta hjónaband varð og farsælt.

---

## Nokkrar athugasemdir um háttsemi í Svíaríki á dögum Gústafs Vasa.

Nægjusemi og tilgerðarleysi var þá drottn-

andi í hinu daglega lífi, en ljómandi og opt smekklaus og hlæileg viðhöfn, þegar eitthvað var um dýrðir. Var þá vant margra lífshæginda þeirra, sem vjer nú höfum. Glergluggar voru sjaldgæfir; í stað hinna fornu hlera voru þá hafðar smágjörfar grindur, línvoðir eða bókfell. Eldstór voru í stað ofna. Stofuveggir voru að innan tjaldaðir voðum, sem hjá hinum fátæku voru stórgerðar og ruddalegar, en hjá hinum ríku með silki og gullsaumum. Með fram veggjunum voru fastir bekkir, er efnamenn höfðu úr eyk. Fyrir framan bekkina stóðu löng borð, sem voru stór og búraleg. Stólar sáust ekki, heldur tómir bekkir, og voru minni setur hjer og hvar settar í herbergjunum.

Diskar voru og sjaldgæfir, og aldrei var skipt um þá, hvað margir og margvíslegir rjettir sem reiddir voru fram. Hnífa, forka og skeiðar varð hver gestur að hafa með sjer. Sigurverk voru svo fásjeð á þeim tímum, að stórfurstinn í Rússlandi, er Danakonungur gaf eitt, hjelt það væri eitthvert töfrasmíði, sem

honum hefði verið sent, sjer og ríkinu til eyðileggingar.

Dagverður var snæddur klukkan 10 fyrir miðdegi, en kvöldverður kl. 5. Þá kl. var 9 eða 10, fóru menn að hátta; en þá var og því fyr farið á fætur á morgnana. Fötin voru að mestu leyti búin til úr ullar voðum; ljerept hrökk þá naumast til í nærfötin. Hátíðabúningurinn var dýr, en varanlegur. Bar það opt við, að dóttirin hafði sama kjólin að spari, sem amma hennar og móðir höfðu brúkað. Kvennmenn báru hárið sljett og uppbrotið, löng aðskorin föt, og háa hálskraga með kniplingum. Karlmenn báru spánska búninginn. Höfðu þeir í fyrstu sítt hár, og rökuðu af sjer allt skeggið; en þetta breyttist bráðum svo, að prestarnir einir hjeldu þeim sið, en aðrir tóku þá að bera sítt skegg, en stutt hár.

Vaxkerti voru að eins brúkuð í kirkjum. Heldri menn brenndu tólgarljósum, en alþýða þurrum furuspænum í þeirra stað. Rúmin voru breið og áföst við þilin. Í engum húsum

voru margar rekkjur, og urðu því margir gestir opt að sofa saman, og stundum hjá húsbóndanum, og það þó tignir menn væru.

Vegir voru þá illir og fáir, svo að vögnum varð sjaldan komið við. Á dögum Jóhanns hins 3. var fyrst farið að brúka kerrur í Svíaríki. Ferðuðust menn mest á hestum, og þegar rigndi, skýldu konungsdætur sjer með vaxdúks kápum.

Háa titla með nær því guðlastandi viðauka orðum, þekktu menn þá ekki. Konungur nefndist: „Hans náð,“ konungssynir: „Junkarar“ kongadæturnar: „Fraukur.“ Hinir aðallegu brúkuðu ekki ættarnafn, heldur skírnarnafn feðra sinna, sem viðurnefni.

Þjóðin var ósiðuð og óreglusöm, er flaut bæði af aldarhættinum og hinum mikla innbyrðis ófriði. Hnefarjetturinn mátti sín meira enn lögin. Vopn og skilmingar voru sífellt höfð við. Eptir gamallri venju lögðust riddararnir albrynjaðir á brúðarbeðinn, voru þeir og yfir höfuð, eins og þeir fornu riddarar, ósiðaðir og fáfróðir. Margir jarlar og umboðs-

menn Gústafs konungs voru ekki bænabókar færir, því síður að þeir kynnu að skrifa. Þeir urðu því að halda skrifara til þess að lesa og svara brjefum konungs.

Að sönnu var hin katólska trú afmáð; en mikil hjátrú loddi þó enn við; ekki að eins almúginn, heldur og hinir göfugu, trúðu seiðum, tröllum, vættum, forinjum og öðru þess konar. Læknisíþróttin var og að miklu leyti innifalin í fyrirbænum og töfraþulum.

Til dæmis upp á, hve ósiðuð alþýða var þar þá, viljum vjer að eins geta þessa. Í Dölunum, sem vötn, skógar og fjöll skilja, höfðu innbúarnir varðveitt hið forna háttalag sitt, er opt varð að sjálfræði. Á hinu einmana býli sínu vissi bóndinn naumast af nokkrum yfir sjer að segja. Liðlanga dagana reykuðu synir þeirra vopnaðir um skógana. Höfðust þeir mest og helzt að veiðar og áflog. Einn leikur þeirra var sá, að tveir stóðu hver á móti öðrum og festu sig saman með belti, sem gekk um báða; síðan tók hver upp hníf sinn, og spurði hinn: „hvað þolirðu langt kalt

járn, bróðir!" Átti þá hver að miða til á hnífsblaðinu, hvað djúpt hinn mátti stinga hann; og er þeir voru búnir að koma sjer saman um það, fóru þeir að krukka hvor í annan með kutunum. Beltið, sem þeir höfðu girt um sig, gaf hvorugum færi á að hopa undan, og þessi blóðugi leikur var fyrst úti, þegar annarhvor þóttist uppgefinn eða lá dauður. Þegar konur fóru í stórveizlur, voru þær ávallt vanar að hafa með sjer líkklæði, þar eð þeim brá til beggja vonar að menn þeirra kæmust þaðan lifandi!

---

## Gamli Konráð.

Allir vissu, að Konráð hafði flakkað um og snýkt á yngri árunum; en nú, þegar hann var orðinn gamall, átti hann góða daga, og var virtur og vel metinn af öllum, sem þekktu hann. Nábúi hans einn spurði hann einu sinni að, hvernig hann hefði farið að komast svona

í álnirnar. — Það skal jeg segja yður, mælti Konráð, ef þjer viljið hlusta á sögu mína.

Þegar jeg var 13 vetra, missti jeg föður minn, og skömmu seinna móðir mína. Systir mín, sem var komin nokkuð til ára, gat ekki sjeð mjer farborða, eða, rjettara sagt, hún vildi það ekki, af því hún var ekki sjerlega vinnukær. Hún sendi mig því í beiningaferðir; og þegar jeg kom heim á kvöldin, með fulla skjóðuna af brauði og nokkra markspeninga, bjó hún til betri kvöldverð handa okkur, enn bændurnir vöndust sjálfir, sem höfðu gefið mjer peningana. Svona fjekk jeg gott fæði fyrirhafnarlítið, og hafði að auk þá ánægju, að geta flakkað um víðsvegar. Þetta hefði jeg ekki getað, ef jeg hefði verið bundinn við vinnu; og jeg kunni prýðilega við þenna lifnað. En hvernig ætli það hefði farið fyrir mjer, ef jeg hefði haldið þessum atvinnuvegi áfram?

Einu sinni kom jeg að stórbýli einu, þegar auðmaðurinn, sem átti það, hjelt hátíðlegan fæðingardag sinn. Jeg vonaði eptir, að mjer yrði gefið töluvert, og gekk því öruggur

inn í höllina, og að einu borðinu, þar sem mörg stórmenni sátu við. Jeg ljezt vera alls þurfi, og sagðist vera föður- og móðurlaus. Allir gestirnir þrifu í vasa sína; en húsbóndinn bað þá um að stinga gjöfunum niður hjá sjer, og skipaði þjóni sínum, að fara með mjer út í andyrið, og gefa mjer þar mat og drukk. Jeg át nú og drakk lyst mína, og fannst allt mjög ljúffengt. En þegar hálf stund var liðin, kom húsbóndinn til mín, hvessti á mig augun, og sagði: Heyrðu drengur minn! hversvegna ertu að snýkja? — Jeg skýrði honum eymdarlega frá öllum bágindum mínum. En hann hristi höfuðið, og sagði: Ertu ekki maður, eins og aðrir? Viltu þá vera svo alla æfi þína, að þú eignist aldrei neitt, sem þú getur kallað þitt, hvorki hús, nje garð, nje rúm, sem þú gætir hvílt í? — Hvað á jeg þá að gjöra, sagði jeg, jeg á ekki einn skilding í eigu minni. — Hvað ertu gamall? — Fjórtán vetra. Þá brosti hann, og mælti: Ekki öðruvísi, þú átt þá að minnsta kosti eptir að lifa 50 ár enn. Hversu miklu geturðu ekki áorkað, ef þú notar þau vel. Hver,

sem vill komast áfram í heiminum, verður um fram allt að verja tímanum vel — viltu gjöra það? — Jeg veit ekki, hvernig jeg á að fara að því. — Nú! jeg skal kenna þjer það — Síðan stefndi hann mjer til sín næsta dag. þegar jeg kom, sagði hann við bónda, sem var staddur þar: þarna er drengurinn; og við mig: Nú Konráð! ef þig langar til að nota tímann vel, þá ætla jeg að koma þjer til þessa ráðvanda manns; þú skalt ekki hafa verra af því, ef þú hlýðir mjer. Annars get jeg ekki hjálpað þjer; þú færð þá ekki einn munnbita hjá mjer, og jeg læt banna öllum að gefa þjer, og skipa að reka þig burt, þegar þú kemur aptur. Bóndinn tók mig þegar með sjer, og óðara enn jeg var kominn heim til hans, sagði hann við mig: Nú skaltu fara, og stinga þarna upp þistla fram að hádegi, en seinni partinn skaltu pæla í sáðgarðinum.

Mjer þótti pælingin ekkert sælgæti. þegar jeg var búinn að vinna eina stund, voru lófarnir á mjer hlaupnir upp. Jeg studdist þá fram á rekuna, og grjet. En bóndinn, sem

hafði gefið mjer auga út um gluggann, kom óðara, og sagði: Hvað ertu að gjöra þarna, Konráð! jeg trúi þú sjert orðinn latur. Jeg ætla að ráðleggja þjer að vinna, eða jeg segi auðmanninum frá því.

Jeg lauk vinnu minni með mestu þrautum. En þá kom húsbóndinn með brauð, ost og öl; og jeg segi það satt, að mjer fjell það miklu betur enn kræsingarnar, sem systir mín var vön að búa til handa mjer fyrir peningana, sem jeg hafði nurlað saman á verganginum. Þegar jeg var búinn að snæða, hallaði jeg höfðinu út af á borðið, til að sofna dálítið. Þá sagði bóndinn: Jeg trúi þú ætlir að fara að sofa, drengur minn! og klukkan er þó ekki meira enn 8. Veiztu ekki, að það eru 2 stundir eptir enn af vinnutímanum. Hjerna eru baunirnar, sem á að sá; þú verður að vinsa úr þeim.

Jeg komst nú ekki í rúmið, fyr enn kl. 10; og það fór ekki óðara að skýma, enn húsbóndinn vakti mig. Á fætur! hjet það þá; morgunstund hefur gull í mund. Nú

tjáðu engin mótmæli; jeg varð að fara á fætur, kljúfa síðan eldivið, og stinga svo upp þistla. Þegar jeg kom heim um miðjan daginn, mætti auðmaðurinn mjer, og sagði: Nú Konráð! er þetta ekki betra, enn að liggja á letihöminni? — Æ, náðugi herra! jeg ber það ekki af; því jeg verð að vinna baki brotnu frá því á morgnana í bíti, og þangað til í vöku lok. — Það tjáir ekki að fást um það; þú verður að nota tímann vel. — Já, jeg er fús til að vinna; en húsbóndi minn leggur of mikið á mig. Höndur mínar eru orðnar svo sárar, síðan í gær, að jeg get naumast hreift þær. — Það þýðir ekkert; við skulum hittast aptur að tveim mánuðum liðnum.

Að nokkrum mánuðum liðnum kom hann aptur, einmitt þegar jeg var að uppræta illgresi í sáðgarðinum; spurði hann þá, hvernig mjer liði, og hvert mjer væri enn eins örðugt um að vinna. — Nei, herra! sagði jeg, nú finnst mjer pállinn og rekan vera eins og eitthvert leikfang. — Þarna sjerðu, hvað gott er að nota tímann vel. Á þessum fáu mánuðum,

sem þú hefur varið vel, ertu þegar búinn að fá löngun til vinnu, og stinna handleggi. Jeg sýndi honum sáðgarðinn. Allt þetta flæmi hef jeg ræktað einn. Jarðeplin, kálið, baunirnar og gulræturnar. — Allt þetta hef jeg sett niður, og sáð til þess, og það gleður mig að sjá, hvað prýðilega það sprettur. — Því trúi jeg dável; menn hafa ekki meiri gleði af neinu, enn þegar vjer lítum eitthvað töluvert gott, sem vjer höfum komið til leiðar með atorku vorri. En hver, sem vill njóta þessarar ánægju, hlýtur að vinna; því maður finnur hana hvorki, nje fær hana að gjöf, heldur verður maður að afla sjer hennar. Gerðu ekki nema að hugsa til þess, hvílíka gleði þú munir hafa af því, þegar þú á síðan ert búinn að rækta garð, sem þú átt sjálfur.

Nú fór jeg með grasið, sem jeg var búinn að bera saman, inn í húsagarðinn, til að gefa það svínunum, gæsunum og hænsnunum, sem komu á móti mjer með hljóðbærri gleði. Þá klappaði auðmaðurinn á herðarnar á mjer, og sagði: Haltu því áfram, að brúka tímann

vel, og muntu þá á síðan geta alið upp skepnur, sem þú átt sjálfur, og jafnvel geta veitt mönnum viðurværi.

Fyrsta árið var jeg matvinnungur; annað árið lofaði húsbóndinn mjer kaupi.

Einu sinni lagði sóknarpresturinn út af rjettri brúkun sunnudagsins. Seint í ræðu sinni sagði hann: Hugsið þjer, að þjer hafið haldið sunnudaginn heilagan, eins og vera ber, ef þjer hafið verið í kirkju, og gangið svo iðjulausir. Þetta er ekki kristilegt hátíðahald hvíldardagsins; svona breytti Frelsarinn heldur ekki. Hann var líka starfsamur á sabbatsdegi, þegar færi gafst; þó vil jeg ekki þar með segja, að þjer skulið ganga að stritvinnu á sunnudögum, eins og endranær. Það eru ýms smávik, sem þjer getið gjört á sunnudögum. Þjer getið, t. a. m. hugsað um, hvað þjer ætlið að gjöra, og verða búnir með næstu viku. Þjer getið ritað upp útgjöld yðar og inngjöld; lesið í biblíunni eða annari góðri bók; rannsakað, hvað börnum yðar fer fram í skólanum, o. s. frv. Hugsið um það, að sunnudagurinn er sjöundi hlutinn af æfi vorri. Þessi ræða fjekk mjög á mig. Að undan förnu hafði jeg því nær ætíð verið iðjulaus á sunnudögum; og mjer hafði aldrei dottið í hug, að jeg gæti gjört neitt, nema farið til kirkju. Jeg fór nú að hugsa um þetta, og bað skólakennarann um nokkrar forskriptir og reikningsdæmi, til æfingar á sunnudögum. Auðmaðurinn hitti mig einu sinni einn sunnudag, þegar jeg sat við skruddur mín-

ar; hann leit á þær, og gladdist við, og gaf mjer bók til að lesa í á helgum; hún var um garðyrkju, akuryrkju og fjárrækt. Jeg lærði mikið af þessari bók, og fór svo að stinga upp á því við húsbónda minn, að rækta jörðina öðruvísi, enn áður hafði viðgengizt; en hann hafði enga trú á nýbreytingum, og var ófáanlegur til þess. Loksins hjet hann því, að bera uppástungu mína undir auðmanninn, er gladdist af þessu, en sagði þó: það er vandhæfi á slíkum nýbreytingum, Konráð minn! Maður á ekki að taka þær upp allt í einu. Það er ekki allt gott fyrir það, þó það sje nýtt. Reynslan gjörir menn hyggna. Gjörðu því fyrst litla tilraun. Heppnist það ekki, þá verður skaðinn ekki mikill; en ef það heppnast, þá er manni óhætt að halda lengra áfram. Húsbóndi minn gjörði nú dálitla tilraun, sem kom honum til að breyta gjörsamlega hinni fyrri aðferð sinni við sáningu og ræktun jarðarinnar, svo að honum smámsaman vannst það á, að hann gat haldið helmingi fleiri skepnur á jörðinni, enn áður.

Allt hafði nú farið vel, til þessa. Jeg var iðinn og reglusamur, og húsbóndi minn hafði miklar mætur á mjer. En nú dreif það á dagana, sem jeg gleymi aldrei. Jeg var nærri því orðinu ógæfusamur, og rjett að segja kominn á húsganginn. Jeg vandist nefnilega á að spila. Það æxlaðist svona til. Nokkrir strákar komu mjer til að fara með sjer inn í veitingahúsið og spila. Til allrar ógæfu vann jeg fáein mörk; og þetta gjörði

mig svo sólgin í spil, að jeg gat ekki án þeirra verið, og hugsaði jafnvel um þau, á meðan jeg var að vinna. Jeg fór á hverjum sunnudegi í veitingahúsið, og sat opt við spilaborðið fram á miðjar nætur. Þá fór jeg að verða óheppinn og óánægður. Jeg spilaði burt því litla, sem jeg fjekk í kaup; og þó jeg inni stundum dálítið, þá gekk það í súginn fyrir bjór og brennivín. Stundum varð jag og rifrildi út úr öllu saman. Morguninn eptir voru þyngsli í höfðinu á mjer, og mjer var óljúft að vinna. Í stuttu máli — jeg var á leiðinni að verða gjörspilltur. En auðmaðurinn hafði auga á mjer, og Guð launi honum það. Sunnudagskvöld eitt, þegar jeg sat í veitingahúsinu með tóbakspípuna í munninum og spilin í höndunum, og vann nokkra dali í einu spili, heyrði jeg að sagt var bak við mig: Gott kvöld, Konráð! — Þetta var þá auðmaðurinn. — Nú, mælti hann, hjerna notar þú tímann vel; þú færð hjer meira í einu spili, enn nokkur annar getur unnið fyrir liðlangan daginn með pálnum og rekunni. Þegar þú minnist þess, hvað heppinn þú ert í spilum, muntu hafa mikla gleði af því, og ef þú verður spurður að, hvað þú hafir unnið þarft, þá geturðu svarað: Jeg kann að spila hin og þessi spil. Það' er svo sem munur á því, eða þá einhver einfeldningurinn sýnir trjen, sem hann hefur gróðursett, eða akrana, sem hann hefur endurbætt. Góðar nætur, Konráð! og með það fór hann í burt. Þú átt að gefa, Konráð! sögðu laxbræður mínir. Jeg heyrði

hvorki nje sá, fleygði spilunum á borðið, og hljóp út á eptir auðmanninum. Náðugi herra! Náðugi herra! kallaði jeg! en hann anzaði engu. Loksins snjeri hann sjer við, og sagði: Snáfaðu burt, Konráð! — Æ, góði herra! jeg fer ekki. — Farðu, segi jeg, eða jeg slæ þig. — Berjið þjer mig, í Guðs nafni! En jeg bið yður að fyrirgefa mjer þetta glappaskot! — Nú, jæja, komdu þá! Síðan fór hann með mig heim sil sín, og las þar yfir mjer. Segðu mjer, Konráð! spurði hann, í hverju þú hefur verið nýtur þá stundina, sem þú varst að spila! Hvern hefurðu glatt, hverjum hefurðu unnið, hvaða gagn hefurðu gjört? Ef, þú hefðir heldur lesið í góðri bók, þá hefðirðu lært eitthvað nytsamt. Jeg gat naumast komið upp orði, fyrir sneipu, og lofaði grátandi að spila aldrei optar; og svo sleppti hann mjer. Næsta sunnudag vissi jeg ekki, hvað jeg átti að gjöra af mjer. Það var eins og einhver væri að toga mig til veitingahússins. Þó ásetti jeg mjer að ganga út á mörkina; en til allrar ógæfu lá leiðin fram hjá veitingahúsinu, og þegar strákarnir sáu mig, kölluðu þeir á mig, og sögðu sig vantaði einmitt fjórða mann. Mjer rann þetta til rifja, og jeg komst ekki úr sporunum. En þegar jeg var kominn með annan fótinn upp að veitingahúsinu, heyrði jeg einhvern koma. Þetta var þá auðmaðurinn. Jeg hljóp því, eins og elding, út á mörkina, og þar varð mjer hughægra. Upp frá þeim tíma hef jeg aldrei snert á spilum.

það, sem, þjer að segja, hefur gjört mig efnaðan, nábúi góður! er þetta: að jeg hef notað tímann vel. Á meðan jeg var vinnumaður, ræktaði jeg jörðina svo vel, að uppskeran varð æ meiri. Jeg notaði mjer allt, og hugsaði opt um, að sá, sem fyrirlítur hið litla, fær aldrei mikið. Og fyrir þessa hirtni mína, eignaðist bæði jeg og húsbóndi minn margan dalinn. Á vetrin kembdi jeg ull, prjónaði sokka og vetlinga, fljetti reipi, o. a. þ. Svona lærði jeg, hvernig jeg ætti að fara að á síðan, þegar jeg færi að eiga með sjálfan mig. Þegar jeg eignaðist konu og börn, varð þetta mjer ný hvöt til ástundunar og árvekni. Guð hefur blessað viðleitni mína, og jeg minnist nú með þakklátum og ánægðum huga þess, sem fram við mig hefur komið.

---

## Leiðrjettingar.

Bls. 80. l. 1. a. o. kjá, l: hjá. Bls. 103. l. 4. a. n. mest, l: minnst. Bls. 146. l. 6. a. n. staðfasta, l: staðfesta. Bls. 147. l. 10. a. n. Svíríki, l: Svíaríki. Bls. 151. l. 5. a. o. smámsann, l: smámsaman. Bls. 153. l. 13. a. o. srax l: strax. Bls. 155. l. 8. a. n. Jókannes, l: Jóhannes.



